Guds
Trwu og Forsialu Þioona
# Verk og Laun,
Einfaldlega talen
yfer Grøf þess
HaaEdla og HaaEruverduga
Herra, Jons Teits Sonar,
Biskups yfer Hoola Stipte,
J Doomkyrkiunne
Ad
Hoolum i Hialltadal,
þann 28. Novembris, 1781.



Hoolum i Hialltadal, 1782.
Prentud af Gudmunde Jons Syne.

Psalm. XL. vers. viii. ix.

Þa sagde eg: Sia þu! Eg kiem, — þinn Vilia, minn Gud, giore eg giarnañ, og þitt Logmaal hefe eg i mijnu Hiarta.

II. Corinth. I. vers. xii.

Vor Hroosan er þad, sem er Vitnan vorrar Samvitsku, þad vier høfum framfared i Verøldenne, i Einfaldleik og Guds Grandvarlegleika, ei i holldlegre Vitsku, heldur i Guds Naad, enn einna mest hia ydur.

Matth. XXV. vers. xxi. xxiii.

Ej þu goode og trwlynde Þioon! þu hefur vered trwr yfer litlu, eg vil setia þig yfir miked, gack inn i þijns Herra Fognud.

Eja værum vier þar!

Zinne yngre
þeirre wtvaldre
Frw, **Margrete Finns Doottur,**
Epterlifande Eckiu
Þess
Hä-Edla og Hä-Æruverduga
Herra, **Jons Teits Sonar,**
Biskups yfer Hoola Stipte,
asamt

# Hanns og Hennar Børnum.

Naad, Myskun, Fridur, af Gude Fødur, og af DRottne JEsu Christo, Syne Fodursins, i Sannleika og Kiærleika, sie med ydur.

Daudenn, hvert sem Menn heyra hanns Tijdende af, edur sia hann rettlijnes a ødrum, er so mikels verd og hørmungafull Kvøl og Naun, sem gengur so nærre, og mørgum verdur so miked um̃, ad þeir hryggiast og grata þar af. Þad er ei einasta Vane toomur, sem vidhaldest hefur fra hinum eldstu Tijdum, so sem seger: 5. Mos.B. 34. v. 8. Israels Børn gretu Mosen i þria Daga, a þeim sliettu Vøllunum i Moabita Lande, þar med þa fullkomnudust Harms og Klögunnar Dagar epter Mosen; Heldur er þetta ein Regla, sem grundvøllud er a hinne stærstu Rettvijse og Sannsyne. Þegar nockur andast, þa grattu hann og harma, sem þier hafe miked a moote

 genged,

genged, þu ſkallt beiſklega grǽta, og af Hiarta hryggur vera, og bera Harm, epter þvi ſem hann heſur vered, ſeger Syrach, Cap. 38. v. 16. 17. Náttúran ſiálf, og ſá almenne Kiærleike Manna á medal, kemſt ſo vid af Daudanum, ad þad aflar ſtærſtu Kvala, og ſáruſtu Tilfinninga, þegar einn einaſte Limur, af mannlegu Samfelage, hlijtur fyrer Daudann ad ſkilia vid, og ſo ſem ſlijtaſt af. Æ! hvad ſárt má þad þá taka, þegar ſá Deyande er goodur Kunninge, hvers Vidkynningu Menn æſktu leingur ad nioota, edur rett áſtbundenn Vin og Náunge, ſo ſem Hold af voru Holde, og Bein af vorum Beinum, leinge þecktur og reyndur ad Dygd og Trygd, leynt og liooſt, af hvers Umgengne Menn mættu hvern Dag glediaſt, og hafa bæde Æru, Nude og Epterlæte! Soddann Dauda ſvijdur Sár, ſvijdur Sár! J Sannleika er þetta hid ſtærſta Sorga Efne; Enn þo ei ſo, ad chriſtner Menn ſieu hier af hryggver, ſem þeir adrer, er einga Von hafa, 1. Theſſ. 5. v. 13. Þvi þo þeir hafe i og af Daudanum ſtærſtu Sorg, hafa þeir þar á moot i og af Lijfenu ſtærſtu Huggun. Sorg hafa og mega chriſtner Menn hafa i og af Daudanum, þvi Chriſtenndoomurenn lætur Menn ei aſklædaſt þeſſum Mannwdlegleika, ad ſyrgia i og vid Daudann. Þau Hiörtu, ſem hverke vikna nie hræraſt, heldur enn Stockur eda Steinn, gediaſt Gude aldrei. Nádarennar Kraptur giörer ecke mannlega Náttúru ad eingu, edur tekur frá henne alla hennar Tilfinningu, ſo ſem Guds Börn finndu eckert til hinna ſáruſtu Kvala, ſem á þeirra Lijkame kynnu ad leggiaſt. Hinn ſanne Chriſtenndoomur ſkipar öllum Monnum, ad elſka ſinn Náunga ſem ſiálfann ſig; Þvi ſkylde hann þá banna, ad ſyrgia Náunganns Söknud og Vidſkilnad, hvers Regla hier um er þetta: Græted med Grætendum? Rom. 12. v. 15. Þeſs vegna er þad betra, ad ganga i Sorgar Hws, enn Dryckiu Hws, i hinu er allra Manna Endalykt, og hiner Lifendu ſetia þad ſier i Hiarta, Pred. 7. v. 3. Siálfur JEſus aumkadeſt yfir Eckiuna i Nain, hann liet ſier eckert miſlijka, vid þann ſyrgiande Mannfiolda, ſem

geck

geck wt med henne grætande, Luc. 7. v. 11. 12. Enn þegar hann sa sialfur Lazari Systur græta vid hanns Grøf, og þa Gydinga sem med henne komu lijka grætande, bifteft hann i Anda og angradest þwnglega, og þa tarfellde JEsus, Joh. 11. v. 33. 35. Hafe sialfur Gud hier vid ei bundest Tæra, hvad miklu sijdur Mennerner? Þvi meire sem Misserenn er, þvi meire er Saknudurenn, þvi meire Saknudur, þvi sarare Sorg. So gengur þad almennelega til, þegar þeir deya, sem Monnum þiker nockud æriida; So sem: Einn rettlætur og nadugur Konungur, einn rettskickadur og trwlyndur Guds Þioon, einn Velunnare, einn Velgiorare, og soddann Tre fellur, under hvers Greinum Menn mattu hafa bæde Skiool og Hæle; Einn Hiartans Vinur hlijtur ad skiliast fra ødrum. Æ! hvad harmar David yfir sijnum Jonathan, segiande: Syrge eg þig, minn Brooder Jonathan, syrge eg þig, eg hefe haft stoora Glede og Unadsemd af þier, þinn Kiærleike var mier stærre enn Kvennanna Kiærleike, 2. Sam. 1. v. 26. Þegar einn Fader deyr fra sijnum morgu Bornum, epter þessum DRottenns Ordum: Yfirgef þu þijna hina Fødurlausu, Jer. 49. v. 11. Þegar Mooduren skal slijtast fra Brioostmylkingunum, so þeir hlioota ad segia: Fader minn og Mooder mijn þan yfirgæfu mig, Psalm. 27. v. 10. Þegar Egtamakarner skiliast hver fra ødrum: Madurenn fra Konunne, og hun hlijtur ad vera ein Eckia, Psalm. 109. v. 9. og segia med Naemi: Hønd DRottenns hefur wtgenged yfir mig, Ruth. 1. v. 13. Þegar Konan hlijtur ad deya fra Mannenum, so sem DRottenn sagde vid Ezechielem: Þu Mannsins Son, sia þu, ad eg vil i burttaka Lysting þinna Augna. Og hann seger aptur: Þa deyde mijn Kvinna um Kvølded, Cap. 24. v. 16. 18. Þegar Daudenn hrijfur Børnen wr Skaute þeirra Fødurs, wr Kiølltu og fra Brioostum sinnar Moodur, sem þo kann ecke gleyma sijnu Barne, Es. 49. v. 15. og þau meiga bæde harma, lijka sem yfir einum einka Syne, og syrgia, so sem sa, er næsta miøg er sorgbitenn, Jer. 6. v. 26. Þegar allt þetta, ja, eitt af þessu, amar ad eda til-

 fellur,

fellur, þurfa Menn ei ad æſkia med Jeremia: Ach! Eg vilde eg hefde noog Vatn i mijnu Høfde, og þad mijn Augu være ein Tara Uppſpretta, Jer. 9. v. 1. þvi þar er Nætur og Daga Grætur þeirra, ſem þetta lijda. Hver er ſa, ſem ei ſiæe, ja, ei finne til þeſſara Verka DRottenus, ſem ſoddann Foreyding giører a Jørdu? Pſalm. 56. v. 9. O Synd! O Synden arga! Hvad illt kemur af þier? Hvad er til Rada hier a moot, nema leita Rada, og Lijknar Dada, af Lijfs Root? Pad er þitt Ord, DRottenn; Pad ſama þitt Ord er vor Hiartans Glede og Huggun, þvi vier erum nefnder epter þijnu Nafne, DRottenn Gud Zebaoth, Jer. 15. v. 16. Par af høfum vier i þeſſare ſtooru Sorg og miklu Mannraunum, þeſſa ſtooru Lijfſins Huggun; Vier trwum aller a einn Gud, Fødur almættugann: Sem er HErra Lijfſins og Daudanns, DRottenn yfir Lifendum og Daudum, Rom. 14. v. 9. Eingenn deyr Oforvarandis, edur af Hendingu, þviad eingenn vor lifer ſiælfum ſier, og eingenn deyr ſiælfum ſier, v. 7. heldur hlijder Lijf og Daude hanns Bode og Vilia, ſem Mønnunum hefur gefed Lijf og Limu, enn gefur allſtadar øllum Lijf og Anda, Poſt. G. B. 17. v. 25. og telur øll þeirra Hæfud-Haar, Luc. 12. v. 7. An þeſſa lifanda Guds Vilia, fellur ecke einn Titlingur a Jørd, Matth. 10. v. 29. Hann hefur Magt og Vald til ad ſegia hverium og einum Lifande: Pu ſkallt deya, Eſ. 38. v. 1. Og þeim Daudu: Rijs upp, Luc. 7. v. 14. Lazare, kom wt hijngad, Joh. 11. v. 40. Komed aptur þier Mannanna Børn, Pſ. 90. v. 3. Hanns Alvitſka ſier, og gefur hid nákvæmaſta Giætur ad, hvernenn, og med hverium Mæta og Hætte, hrar, a hverium Stad og Tijma, hver einn deyr og burtkallaſt. Hann er DRottenn, og giører hvad hønum er þeckt, 1. Sam. 3. v. 18. Hier ad auke, er þeſſe lifande Gud, Mannanna Vardveitare, Job. 7. v. 20. ſem hiartanlega ad ſier tekur alla Harmþrwngna og Yfirgefna, ſem hønum treyſta. Petta ſyner hann, ecke einaſta i Orde, med þvi ad heita og lofa þeim ſinne gudlegre Hiælp og Hiaſtod, heldur i Verke og Sannleika,

med

med þvi ad veita hana, og vera þeirra Styrkur i Neydenne, Ps. 37. v. 39. Hann sier vel og skodar Eymd og Armædu, þad stendur i hanns Höndum, hiner Fatæku befala þad hönum, hann er Hiaalparenn Fodurlausra, Psalm. 10. v. 14. Þviad hann hefur sagdt: Eg vil ecke yfirgefa þig nie forsooma, Ebr. 13. v. 5. Og: Eg vil snwa þeirra Sorg i Glede, og hugsvala þeim og gledia þaa, epter þeirra Hörmungar, Jer. 31. v. 13. Gud er ei Gud daudra, heldur lifande Manna, Matth. 22. v. 32. Þetta efner hann vissulega, þvi hann yfirgefur ecke sijna Myskunsemd, hverke vid þaa Lifendu nie Framlidnu, Ruth. 2. v. 23. hveria hann enn audsyner i þvi, ad vera Fader Fodurlausra, og Doomare Ecknanna, Psalm. 68. v. 6. Israel hefur enn nu Huggun af Gude, Ps. 73 v. 1. sem er: Eilijf Velferd og Saaluhiaalp þeirra Framlidnu, sem i DRottne deya, Openb. B. 14. v. 13. sem hafa halded Trwnne, 2. Tim. 4. v. 7. og goodre Samvitsku: Þeir eru frelsader af ollu illu, v. 18. og komner til Hvijldar, Syr. 22. v. 11. Þeir hafa höndlad Hnossed, epter hveriu þeir hlupu, og þaa Koronu, fyrer hveria þeir bördust, 1. Cor. 9. v. 24. 26. Þeirra Saaler eru i Hende DRottenns. hvar eingen Pijna snerter þær, Spek. B. 3. v. 1. Þetta er Davids Huggun, yfir sijnu framlidnu Barne, þaa hann seger: Nu, ad þad er daudt, hvad skylda eg fasta? Eda mun eg geta sookt þad aptur? Eg fer til þess, enn þad kemur ecke til mijn, 2. Sam. 12. v. 23. Hier til leggst Von þess sijdarsta Dags og Upprisunnar, þaa þeir Trwudu faa ad siaast og finnast aptur, ecke einasta um Stundarsaker, heldur um alla Eilijfd. Þesse Dagur er ei einasta tilsettur viss og Obrygdannlegur, Post. G. B. 17. v. 31. heldur veit eingenn, nær enn þetta Augnablik edur Kvölld-Tijme, um hvern Creaturenn af Skilnadenum varer, sie þegar lided, og Morgun Fagnadarenns upprennur, Ps. 30. v. 6. Þaa þeir Endurleystu DRottenns aptur snwa, og til Zion koma medur Hroosan, eilijfur Fognudur mun aa þeirra Höfdum vera, Glede og Unadsemd munu þeir höndla, enn Sorg og Andvarpan mun burt fraa þeim flya, Es. 51. v. 11.

Hvers

Hvørs tveggia, bæde Mannraunanna Sorgar af Daudanum, og lijka þar vid lagdrar Lijknar, þeirrar stoorn Lijfsins Huggunar, eru Þier, **wtvalda Frw,** asamt Ydar Børnum, hluttakande ordnar: Vor Von er stadføst fyrer ydur, af þvi vier vitum þad, ad lijka sem þier erud Hluttakarar ordner Hryggdanna, so munud þier og verda Hluttakarar Huggunarennar, 2. Cor. 1. v. 7. Daudann hafid Þier heyrt og sied, nær og fiær, og af hønum haft Sorg, þo nu yfirtake, þar Drotteñ hefur, i og vid Dauda og Svipter Ydar sæla og blessada Egta Herra, fædt ydur med Harma Braude, og byrlad ydur Dryck med stoorum Mæler fullum Tæra, Ps. 80. v. 6. Þetta og þvilijkt er hin stærsta Sorg, sem Mønnum kann hier til ad falla i þessu Lijfi, þvi vid hana bætast margar adrar Hørmungar, sem hier verda ei frædskildar, skialdañ er Eymd ein; Ern þvi eingen Undur, þo Þier og Børnen, sem David, og þad Foolk er med hønum var vid Ziklag, gretud so lenge, ad þier giætud ei lengur grææted, 1. Sam. 30. v. 4. og leggdud þar til þetta Harma-Kvæde Jobs: Var eg ecke luckusamlegur? Var eg ecke ad Hoofi spaklætur? Hafde eg ecke gooda Hvijld? Og þar kom soddann Onæd, Job. 3. v. 36. Aller sem til þeckia, eñ sierdeiles vier, sem æsamt Ydur eigum hier Hlut ad Maale, tøkum under med þessum Jeremiæ Ordum: Vier vonudum ad þad skylde Fridur vera, þæ kom þar eckert Gott, vier vonudum ad vier skyldum heilbrygder verda, enn siæ þu, þæ er þar eñ meire Skade, Jer. 14. v. 19. Þo Drotteñ hafi nu med þessare Daudañs Sorg læckad ydur, og sæ hiñ Almættuge hrellt ydur, sem Naemi, Ruth. 1. v. 21. þa er Ydur þad i þessare Ydar Hørmung stærsta Huggun, ad þier hafed funded, og fiñed eñ nu, Næd fyrer Drottne, þvi Drottenn er med þier, Luc. 1. v. 28. Hann hefur sied Ydar Tær, sem Ezechiæ, Es. 38. v. 5. reiknad þau, og safnad þeim i sijna Fløsku, Ps. 56. v. 9. Þo Drottenn hafe læted Daudañs Hamar so hardt rijda ad Ydar Hiarta, ad hañ

hafe

hafe þar af broted Helmingeñ, og sialfur so sleged, ad þad kann eingenn ad lækna, Jer. 14. v. 19. þa bæde kann hann og vill þad sialfur giøra, sem er Drottenn þiñ Græðare, 2. Mos. B. 15. v. 26. Þo Þier hafed mætt sia Hold af ydar Holde, og Bein af ydar Beinum, hier andvana fyrer Ydar Augum, og þar yfer mæla þessum Harmagraat hinnar vijsu Kvinnu af Thekoa: Eg er ein Eckia, ein harmþrwngen Kviña, og miñ Boonde er andadur, 2. Sam. 14. v. 5. þa lifer hann, sa ed þig hefur giordt. hann er þiñ Madur, Drottenn Zebaoth er hañs Heite, og þinn Endurlausnare, sa hinn Heilage i Israel, hann sem allrar Veralldarennar Gud verdur kalladur, Es. 54. v. 5. Þo Þier siaed Ydar Børn Fødurlaus, hia, og kríngum Ydur, þa er i Himnenum þeirra Fader, sem hinum Framlidna hefur sagdt: Þijnum Fødurleysingium vil eg uña Lijfsins, og þijnar Eckiur skulu vona a mig, Jer. 49. v. 11. Og hvilijk Huggun er þad ecke, þegar vorer Framlidnu, sem vier hier greftrum, hafa vered trwer og forstiaurer Guds Pioonar? Þeirra Lijf og Framferde, er þa so sem Bref og Jnnsigle þeirra Launa, sem þeim eru lofud og fyrerheiten af Gude. Þeirra Daude skier til þess, ad Guds Verk auglysest a þeim, Joh. 9. v. 3. Enn þau Taar, sem hier i Sorgenne fliota, yfir þeirra Vidskilnade og Søknude, eru Gude til Dijrdar, þvi þau eru under eins Fagnadar og Glede Taar, yfir þeirre Sælu og Dijrd, sem þeir niota, þar þeir eru frame fyrer Stoole Guds, og þioona hønum Dag og Noott i hanns Mustere, Op. B. 7. v. 15.

Eg neyddest fyrst, **Velborna Frw!** ad bera Ydur og Ydar hier nalægum Børnum, þessa Sorga Søgu og Harma Tijdende heimuglega, sijdann ad tala opennberlega yfir Grøf hinns Framlidna (af þvi Ydur sialfre þocknadest so) og nu ad sijdurstu, laata þesse Ord koma fyrer fleire Sioon. Allt þetta var, og er, mier um Megn, ofvaxed. Þad er mijn margfold Skylda, ad syna Viliann, sem mier er gefenn, og eg hefe;

Enn eg er so midur farenn ordrum, ad eg get ei fullkomnad hann, þvi hann stendur ei i mijnu Valldе; Þo maa eg segia: So miked sem eg megna, em eg reidubwenn til, Rom. 1. v. 15. Þo eg hafe ei giørt sem eg hefe viliad, þaa hefe eg ad nockru leite giørt sem eg hefe kunnad, mijns eigenn Astands og Asigkomulags vegna. Hier er þaa einungis Viliенn, naudugur viliugur, naudugur i og ad Mættenum, viliugur i Hlijdnenne; Enn hann er ecke sialfsum sier biargande, þvi sijdur einhlijtur, þar fyrer þarf hann stoorrar Hiaalpar vid, um̃ hveria eg bid hier med audmiwklega:

## Haa=Edla Velborna Frw! Edla Børn!

Taked Viliann fyrer Verked, virded þad epter hønum, enn hann ecke epter þvi; Þaa munu adrer, sem þetta siaa edur heyra, giøra lijka so, eins og þier giøred. Eg bid i Vonenne, og þesse mijn Von lætur ecke til Skam̃ar verda, allra sijst hiaa Ydur, þar um̃ hefe eg Raun, aa þeim faaи Ordum, sem eg hefi talad, og af Heyrnenne voru betur medtekenn, enn eg og mijner Vid= og Van=Burder ættu skiled, ( ad eg nu ei tale, um̃ alla adra Hylle og Velvild, leynt og lioost, og þar af flootande margfaldar Velgiørder til Orda og Verka ) Þesse Raun mun en̄ reynast, vid Sioon þessara hier epterfylgiande Orda, hvør eg hier med alleinasta Tileinka og Tilskrifa, Ydur, Haa=Edla og Velborna Frw! og þeim Edla Børnum, sem aasamt Ydur nu graata og sakna sijns Fødurs. Gud Þolennmædennar, og Gud Vonarennar, fylle ydur med øllum Fagn-

Fagnade og Fride i Trwnne, so ad þier hafed gnooglega Von, fyrer Krapt heilags Anda, Rom. 15. v. 13. Og Gud og Fader Drottenns vors JEsu Christi, hvør ad er Fader Myskun, semdanna, og Gud allrar Huggunar, hann hugge ydur i allre ydar Hryggd, ad lijka so sem þier hafed miked af Christi Pijnu, so verde þier og rijkuglega huggud fyrer Christum, 2. Cor. 1. v. 35. Þessa Oskar sa, sem er med skylduguſtu Virdingu,

Hꝛ-Edla Velborna Frw!

Ydar

Hoolum i Hialltadal,
þann 15. Aprilis. 1782.

Audmiwkaste elskande
Þenare
Þorkell Olafs Son.

# Bænen.



sanne lifande Gud! Eilijfe Konungur! Jer. 10. v. 18. sem einnsamann hefur Odaudleikann, 1. Tim. 6. v. 16. Drotteñ Gud fra Eilijfd til Eilijfdar! Þu sem lætur Meñena burtdeya, og seger: Komed aptur þier Mannaña Børn, Ps. 90. v. 1. 3. Þu sem byr i Hædunum og Helgedoomenum, og hia þeim sem hafa sundurkrameñ Anda, og harmþrwnged Hiarta, Es. 57. v. 13. Fyrer þig og þijna stooru Hatign, komum, og erum vier nu i Dag komner, vesæler, Daudanum underorpner, synduger Menn, styniande under þeim stoora Þwnga vorra Synda, sem valda þvi, ad þu so akaflega reidest, og hefur lagdt soddann Giøld a oss, ad vier hliootum ad deya. Þad sama giører þijn Reide, ad vier so forgaungum, og þijn Griñd, ad vier hliootum so skyndelega i burtu; Þviad vorar Misgiørder setur þu fram fyrer þig, vorar Ovitañlegar Synder i Lioos fyrer þijnu Auglite, Ps. 90. v. 7. 8. Þess vegna hefur þu, O voldnge allsradande goode Gud! slegeð Hyrderenn, Sach. 13. v. 7. sært Foolk þijns Haglendis, og Saude þinna Handa, Ps. 95. v. 7. med Burtkallan fra þessu Tijmannlega, og Dauda þijns Þenara Aarons, vors ædsta Yfermanns i þessum Stad, og elskulega Biskups, nu i þier blessada, Herra Jons Teits Sonar. DRottenn gaf, DRottenn i burttook þad, losad sie Nafned DRottenns, Job. 1. v. 21. Þar þu hefur nu, eilijfe Gud, leyst Hann fra Lijkama þessa Dauda, Rom. 7. v. 24. fullkomlega frelsad Hann af øllu illu, og hialpad Hønum til þijns himneska Dijrdar Rijkes, 2. Tim. 4. v. 18. so er Daudenn Hønum ordenn Avinningur, Phil. 1. v. 21. Þijn Elska, sem ert sialfur Kiærleikurenn, 1. Joh. 4. v. 8. hefur audsynt sig þar i, ad taka Hanns Saalu so hiartannlega ad þier, ad hun fordiarfadest ecke, Es. 38. v. 17. edur skylde leingur mædast, ad horfa a þad illa, þau ranglaatu Verken, sem kvøldu Hanns heiløgu Saal, 2. Pet. 2. v. 8. Þar fyrer er Hann nu fra Doomenum og Angistenne burtnumenn, Es. 53. v. 11. og komenn til hinns ædsta Hyrders og Biskups Saalnanna JEsum, 1. Pet. 2. v. 25. i þær Vistarverur i hanns Fødurs Hwse, hvar JEsus hefur tilbwed Hønum Stad, Joh. 14. v. 2. og gefed Hønum, sem nu hefur yfirunned fyrer Lambsens Blood, ad klædast hvijtum Klædum, og medkenner hanns Nafn fyrer sijnum Fødur, og hanns heiløgu Englum, Op.

B. 3. v. 5. hvar Hann nu medtekur þad Hønum var fyrer allar Alder fyrerhugad, þad Hann hier þreyde, þad Hann hier epter laungade, ad siaa Gud Auglite til Auglites, og vera med Christo, Phil. 1. v. 23. Þvi Gooda, sem þu, O mystunsame Gud! hefur Hønum og lijka oss veitt, vilium vier ei gleyma, þo vier tregum Hanns Vidskilnad, med Spaamannsens Elisæi Ordum: Minn Fader! Minn Fader! 2. Kong. B. 2. v. 12. Vier siaum Hann ei meir hier medal vor, og meigum þvi syrgia þennann Almennings Sneyder hier i þessu Stipte, sem Børn, er siaa a Bak sijnum elskulegum Fødur, einkum þar skemst er a mille ordsed slijks Sneyders og Søknunar, so heldur taka ad yfast en fyrre Saarsen, er þu, O rettlaate Gud! hafder sært, og aptur i Myskun læknad; Þær fyrre Sorgernar, er þu hafder tilskickad, enn aptur i Naad endurbætt, þvi a þessum Tijma er hier mikel Sorg, Landed klagar sig, Ætternar sier i Lage, og þeirra Hwsfrwr sier i Lage, Sach. 12. v. 11. 12. Daglega sie DRottenn lofadur! Gud leggur Þwnga a oss, enn hañ hiaalpar oss einneñ, Sela. Vier høfum einn Gud, sa er hiaalpar, og þann DRotteñ DRotteñ, sem af Daudanum frelsar, Ps. 68. v. 20. 21. Vier fiñum til þessa Þwnga, Drotteñ, sem þu þañeñ leggur a oss; Vier erum mædder i Harmkvælum, þviad þetta er sw ønnur Mæda sem oss giører Mein, Es. 8. v. 15. 16. Sorg vors Hiarta er mikel, lijt þu a vora Eymd og Armædu, Ps. 25. v. 17. 18. Þad var uñ eina miøg stutta Stund ad giøra, Es. 10. v. 25. eitt Ar og Dag, Cap. 32. v. 10. ad Grøsen var tilbwen, Cap. 30. v. 30. Æ! Vei oss! Hvørneñ hefur DRotteñ lagt oss til Sorg ofañ a Sorg? Jer. 45. v. 3. Heilager Menn verda i burtsafnader, hiner Rettferdugu verda burttekner, Es. 56. v. 13. so fæcka hiner Heiløgu, og þeir Trwu medal Mañaña verda faaer, Ps. 12. v. 2. Af þessu meiga vor Augu fliota i Taarum, og vorar Augnabrijr reña i Vatne, þvi Daudeñ er iñfalleñ uñ vor Vindsaugu og komeñ i vor Herberge, Jer. 9. v. 18.-21. Æ vora Eymd og Hiartans Sorg! þad er vor Plaaga, vier hlíootum hana ad bera, Cap. 10. v. 19. Æ DRottenn! vorar Misgiørder hafa þad forþenad, Cap. 14. v. 7. ad vier erum Fødurlauser og høfum eingann Fødur, vorar Mædur eru Eckiur, vor Dans er umsnweñ i Sorgar Kvæde, Korona vors Høfuds er affallen. O vei! ad vier høfum so syndgast, þar fyrer er eiñeñ vort Hiarta harmþrwnged, og vor Augu døpur orden, Harmag. 5. v. 3.-15.-17. Fyrer hverium skulum vier þessa, edur adra vora Kveinstafi uppbera, utañ fyrer þier, þu eilijfi Gud, sem þetta hefur giørt?

 Gud



Gud Polennmædennar, Rom. 15. v. 5. reidstu oss ecke, þo vier grꜳtande byrtunst hier i þijnu Mustere, þo vier stynium og andvørpum fyrer þiñe Hꜳtign, ecke heldur þessum Sorgar Merkium, sem hier eru sett i þinn Helgedoom, vegna þeirrar Sorgar er vier berum yfir vorum Framlidna, yfir þvi Skarde er þu hefur høggved, vid hvert falled hefur eiñ Høfdinge og hinn meste Madur, 2. Sam. 3. v. 38. Frꜳ Drottne er þetta komed, þar fyrer kuñum vier ecke neitt ad mæla ꜳ moote þier, O Gud! hverke illt nie gott, 1 Mos. B. 24. v. 50. Vier setium oss ei moote þijnum Vilia, O almꜳttuge Gud! Þad være og forgefins, þvi hver kann hønum mootstanda? Rom. 9. v. 15. Heldur vitnar vor Sorg, og af heñe fliootande Tꜳr, ad vier fiñum til þiñar Hyrtingar, sem gengur oss til Hiarta. Þu sem hefur skipad oss ad elska vora Foreldra, hefur Polennmæde vid þenna vorn Harmaliettir ad Tꜳren renne. O Drotteñ! þu sem ransakar Hiørtun, og proofar Nijrun, Jer. 17 v. 10. Gef Nꜳd, ad vier og so grꜳtum beisklega, Luc. 22. v. 62. vegna vorra Synda, þvi vorar Yfirtrodslur eru heldst til miklar fyrer þier, og vorar Synder andsvara i moote oss, þviad vorar Yfirtrodslur eru hiꜳ oss, og vier fiñum til vorra Synda, Es. 59 v. 12. med þeim høfum vier styggt þijna guddoomlega Hꜳtign, reitt þig til Reide, og knwd þitt Rettlæte ad straffa oss ꜳ þeñañ Hꜳtt. O Drottenn! Hver kañ ad formerkia hvad opt hañ misgiører? Fyrergef oss vora heimuglega Breste, Ps. 19. v. 13. fyrergef, fyrergef O Gud! fyrergef oss vorar Synder i JEsu Nafne, sem fyrer vorar Synder var ofurseldur, og fyrer vors Rettlætes Saker uppvaktur, Rom. 4. v. 25. sem siꜳlfann sig hefur gefid wt fyrer oss, uppꜳ þad hann endurleyste oss i frꜳ øllu Orettlæte, Tit. 2. v. 14. Lꜳt ei þær Synder, fyrer hveriar hañ hefur lided, med sinne Pijnu bætt, og Dauda forlijkad, valda þvi, ad þu rettlꜳte og myskunsame Gud, ofurselier þijna trwu Pioona, sem þu hefur sett yfir þijn Hiw, Daudanum, ad hꜳlfnudum þeirra Verkum, edur kipper oss i burt, ad hꜳlfnudum vorum Døgum, þijn Ar vara æ og ætijd, Ps. 102. v. 25. Minnstu, Drotteñ, þiña Myskunsemda, og þiñar Giædsku sem vered hefur frꜳ Upphafi Veraldareñar; Miñstu ecke ꜳ Synder vorrar Æsku, og ꜳ vorar Yfirtrodslur, heldur minnstu vor epter Myskunseme þinne, fyrer þinnar Goodgyrndar Saker, Ps. 25. v. 6. 7. og myskuna oss epter þiñe Myskunseme, og afmꜳ vorar Synder epter þiñe stoorre Myskunseme, Ps. 50. v. 3. Gef upp vid oss, so vier endurlifnum, ꜳdur enn þad vier førum i burtu hiedann, og

erum

erum hier ei leingur, Psalm. 39. v. 14.

Eilijfe Fridarenns Høfdinge, Es. 9. v. 5. Lijffins Hertoge, Post. G. B. 3. v. 15. Herra JEsu Christe! Sem var daudur, og er lifande fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen! Þu hefur Lykla Helvijtes og Daudans, þu Frumgetningur Framlidenna, Openb. B. 1. v. 5. ≈ 18. sem Daudañ hefur svipt Magtenne, eñ Lijfid og Odaudlegleikann i Lioos leidt, 2. Tim. 1. v. 10. þu ædste Prestur yfir Guds Hwse, Ebr. 10. v. 21. hefur eñ ad niju auglijst þitt Ord sannarlegt: Hvar sem eg er, þar skal og minn Þenare vera, Joh. 12. v. 26. i þvi ad kalla og taka til þijn, þiñ trwa Þioon vorn blessada Yfirmann og Biskup, Herra Jon Teits Son, fyrer lijkamlegann Dauda, i gegnum hvørn þu hefur vijgt Hønum Veg nijann og lifande fyrer þitt Blood, til Inngaungs i hid Heilaga, Ebr 10. v. 19. 20. Lijt nu til þiñar Christne lifande Gud, til þijns Hwss, sem er þinn Søfnudur. Lijt til Mwrveggianna Jerusalem, hvadann þu hefur enn nu einn Vøkumann kallad, þvi þu hefur sagdt: Þijner Mwrvegger eru jafnann fyrer mier, Es. 49. v. 16. Uppfyll þijn Fyrerheit, þa sem hefur losad: O Jerusalem! Eg mun Vøkumenn tilskipa uppa þijna Mwrvegge, þeir ed alla Daga og allar Nætur, skulu aldrei hlioođer vera, og þeir ed skulu minnast Drottenns, Es. 62. v. 6. Gleym ei þijnum Vijngarde, sem seger: Minn Vijngardur er fyrer mier, Lofkv. 8. v. 12. Þu sem hefur skipad og keñt oss ad bidia: Kornskeran er mikel, eñ Verkamennerner faaer, fyrer þvi bidied Herrann Kornskerunnar, ad hann sende Verkamenn i sijna Kornskeru, Matth. 9. v. 37. Minnstu þa, Drottenn, hvernig oss veiter, Harmagr. 5. v. 1. og bid þinn himneska Fødur fyrer oss, ad vier fyrer þig, og i þijnu Nafne, mættum fiña Naad og ødlast Myskun. Þu ert sa sem bæde kann og maa, ja, skal hugga oss i vorre Armædu a Jørduñe, 1. Mos. 5. v. 29. þvi þu ert oss af Gude giørdur, til Vijsdooms, og til Rettlætes, og til Helgunar, og til Endurlausnar, 1. Cor. 1. v. 30. AE! Laat þetta enn siaast og reynast, og ad þu siert med oss alla Daga allt til Enda Veralldar, Matth. 28. v. 20.

O eilijfe Gud heilage Ande! þu sem ransakar alla Hlute, einneñ Diwpleika Guddoomsins, 1. Cor. 2. v. 10. Hvørsu Oransakanleger eru oss Doomar Drottenns! Hvørsu Ofinnande hans Veger! Rom.



11. v. 33. þvi mijnar Hugsaner eru ei sem ydar Hugsaner, seger Drottenn, Es. 55. v. 8. Enn þu ert Ande Þeckingarennar og Otta Drottenns, Es. 11. v. 2. Veit oss þijna Nad, ad vier vitum og trwum, ad Doomar Drottens eru retter, Ps. 119. v. 15. ad vier mættum Ottast hann, v. 38. og hann late sijna Myskun koma yfir oss, so ad vier lifum, v. 77. Þu ert Ande Vitskunnar og Skilningsens, AE! Upplijs og opna vorn Skilning, vor Augu, so ad vier siaum þa furdanlegu Hlute i þijnu Løgmale, þad er vor Huggun i vorre Eymd, þvi ad þitt Ord þad endurlijfgar oss, v. 18. - 50. Þu ert Ande Sannleiksins sem af Fødurnum framgengur, Joh. 15. v. 26. leid þu oss i allann Sannleik, Cap. 16. v. 13. helga oss i þijnum Sannleik, þijn Ord eru Sannleikur, so ad vier sieum helgader i Sannleikanum, Cap. 17. v. 17. 19. Ande Rads og Styrkleika, styrk og vardveit oss i Sannleikanum, og Sannleikann i oss, so ad hann sie hia oss ad eilijfu, 2. Joh. Pist. v. 2. so þijn Myskunseme og Sannleike hafi Yfirrad yfer oss eilijflega, Ps. 117. v. 2. Hialpa og styrk oss nu, ad vier mættum tilbidia Fødurenn i Anda og Sannleika, Joh. 14. v. 23. ad þesse vor Guds Þioonusta, og Yfirvegun Sannleiksins Orda, verde oss sem Sannleikanum trwum, Ylmur Lijfsins til Lijfsins, 2. Cor. 2. v. 18. Kraptur Guds til Saaluhialpar, Rom. 1. v. 16. So befølum vier þier, Drottenn, vort Lijf og vorar Saaler, hverttveggia hefur þu endurleyst, Drottenn, þu trwfaste Gud, Ps. 31. v. 6. Þinn Fridur sa hærre er øllum Skilninge, vardveite vor Hiørtu og Hugskot i Christo JEsu, Phil. 4. v. 7. Lat þier so þocknast Ordrædur vors Munns og Maaled vors Hiarta, fyrer þier, Drottenn, vor Frelsare og vor Endurlausnare, Ps. 19. v. 15. Abba! elskulege Fader! Fader vor, &c.



Text-

# Textenn.

Act. Cap. XIII. vers. xxxvi.

David, þæ hann hafde æ sijnum Tijma þienad Guds Vilia, (Ræde) so sofnade hann burt, og er lagdur til Fedra sinna, og hefur Rotnan sied.

## Exordium.

Nu eg tala af þessum H. Stad i Dag, af mikelle Hryggd, af Trega mijns Hiarta, med mørgum Tæraføllum, 2. Cor. 2. v. 6. er ei Kyn nie Undur, Þvi eg held þar gefest ei soddann Tilfinningarleyse edur Hardydge, i mannlegre Næturu, sem ei komest vid, stynie edur græte, af hryggelegum og sorgarfullum Tijdendum. Tæren eru flestum Harmalietter, og eg er fullviss um, eingenn sem þetta sier, heyrer, heyra edur lesa kann, legg-ur þetta til Lijta mannlegre Næturu, edur Hiarta sem ecke er Stockur eda Steinn, og þo syndest meiga vikna i Dag, vid þær Hørmungar, sem hier hafa framm-fared fyrer vorum Augum; Þvi mundu þau þæ ei vinna æ Raustu og Mælfære eins Jstødulijtells, ad frammtelia þau Tijdende, er kvelia hann med Sørgum og Trega innvortis, Ecka og Tærum wtvortis?



Þetta eru Daudanns Tijdende, og af honum ordsokud Harmkvæle, under hverium vier stynium og andvorpum; Ecke eins almennelegs Manns (er vier so kollum) sem lijtels var umkoinenn, og þar epter metenn, af og hia oss, er vier hefdum halded Bolvan þessarar Veraldar, og Hreinsunar Offur allra Manna, 1. Cor. 4. v. 13. Heldur eins Hofdingia og hinns mesta Manns 2. Sam. 3. v. 38. a medal vor. Þvi hier kom til vor, og lifde, ia, lifde allt of skama Stund hia oss, Trwr og forsiall Guds Pioon. Enn hryggeleg eru Tijdenden, sorglegt er fra ad segia, Hann lifer ei meir medal vor, vor elskulegaste Yfirmadur og blessade Biskup, Sal. Herra Jon Teits Son. Þviad so sem Elding wtgengur af Austre, og skijn allt til Vesturs, Matth. 24. v. 27. lijka so var Hanns Hierkoma, Hiervera og Burtfor. Æ vorar hryggeleguſtu Mannrauner! Ydur sege eg þad, ollum þeim sem hier fram hia gaanga, skoded þad og hygged ad, hvert þar er nockur Sorg, so sem vor Sorg, sem vier, i þessu sorgbitna Hoola Stipte, hofum nu ad niju i ratad. Þar fyrer græt eg so, og bæde mijn Augu fliota af Vatne. Vier meigum segia: Heyre þad allt Foolk, og hygge ad mi̇nne Sorg: Mijner Prestar og Ollduungar eru vanmegnader. O DRottenn! Alijttu þo i hverre Þreyngingu ad eg er. Mitt Hiarta slæst um i mijnu Lijfe, þviad eg em miog harmþrwngen, i Hwsenu þa hefur Daudenn giort mig ad einne Eckiu. Æ! Mijn Andvarpan er mikel, og mitt Hiarta er harmþrwnged, Harmagr. 1. v. 12. 16. 18. 20. 22. Æ hryggeleguſtu Lijfsens Umskipte! Þvi eru þau so snogg? Þvi skipte þar so fliott um Lijf og Dauda? Þvi er þar soddann Olan, Olucka og Mootlæte, i voru Laane, Lucku og Medlæte? Þvi draga soddann Sky fyrer vora Medlætis Sool? Þvi gengur hun so fliott under? Vier væntum Glede, sia, þar er Sorg. Sie DRottenn med oss, þvi hender oss þetta? Dom. B. 6. v. 13. Er þesse vor Yfirmadur ordenn oss Benoni, Sorgar Sonur, yfir hverium vier skulum graata, sem einum einka Syne? Sach. 12. v. 10. Skulum vier syngia fyrer þeim vor Harma Kvæde, sem ei graata? Luc. 7. v. 32. Hroope þa Steinarner i Mwrnum, og Bitarner under Sperrunum skulu svara þeim, Hab. 3. v. 7. Hliooded i vorum Kluckum itrekar vorn Harmagraat, Lijkhringingen i-stemer vorn Sorgar Saung! Hver getur hier so inngenged, ad ei siae Sorga Merken? Sorgar Bwningurenn a Monnunum, a þessum H. Stodum, er alls þessa þegiande Vottur, Sioon Sogu rijkare. Þesser Hryggdar Secker, med þeim Taarum sem a þa detta og falla, vitna um Tilfiñing vors Hiarta. Æ! ad þesse Hlutur hefde mier ei tilfalled, ad bera fyrst þesse Sorga Tijdende heimuglega, miklu sijdur nu opennberlega, heldur einum odrum, sem þar til var betur

wtbwenn

wtbwenn, ad Kroptum, Mœlfære, og Mentum: Sem være vitur, og liete sier Þad til Hiarta gœnga, Jer. 9. 12. So eg hefde mætt bera minn Harm i Hlioode, og Þegia, og ecke auka odrum, allra sijdst Þeim, sem hier eiga mestann Hlut ad Mœle, Hrygd, Sorg œ Sorg ofaun, Phil. 2. v. 27. Og hvad skal eg segia? Eg mœ tala Þessum Spœmannsins Habacuks Ordum, Cap. 2. v. 1. og segia: Hier stend eg œ mijnu Vardhalde, og geing uppœ minne Festingu, og skoda og sie til hvad mier verdur sagdt, sem er Þetta, hvad eg nu framflyt i DRottenns Nafne: Grœted ecke yfir Framlidnum, og gremied ydur ei Þess vegna, Jer. 22. v. 10. Þvi soddann er til einkis, og ei nema mæda sialfsann sig. Ad grœta, veit eg vel er leifelegt, Þvi varla mœ so andvana Lijk lijta edur sia, sem nidur er lagdt i Grøfena, Þar huled med Molld og Footum troded, ad ei renne Þeim Lifendu vidverande til Rifia. Nœtturlegt er Mønnum ad syrgia sijna burt-farande og farna Astvine, og Þeirra Skilnad; Mun Þœ ein Eckia ecke syrgia sinn Mann? Børnen sinn Fodur og Foreldra? Undergefner sijna Yfirbodara? Þvi skyldum vier Þœ, sem hier erum innann Hwss i Dag, geta bundest Taara? Mier sinnst Þad Omøgulegt. Hvad er Þad, sem Þid erud hryggver wt af? Sagde JEsus vid sijna Læresveina, sem syrgdu hann sinn Meistara, og hvernig hann doo, Luc. 24. v. 17. Oss Þarf ei spyria Sorgar Efna, er lijka sem Þeir, syrgium vorn Yfirmann, sem i sijns Herra og Meistara Stad, var hier medal vor settur yfir oss, vier syrgium Þad hann doo. David fiell so Þwngt Sonar Daudenn, ad hann sagde so: Minn Son Absalon! Minn Son, minn Son Absalon! Gud glæse eg mætte deya fyrer Þig! O Absalon! Minn Son! Minn Son! 2. Sam. 18. v. 33. Hvad sœrt mætte oss falla Fodur Daudenn nu ad niju? Og Þvi munde hinum alvijsa Stioornara Þocknast ad laata oss lifa, og ei miklu heldur einhvern vorra, edur annann sem lifer, sæta Þessum Daudans Ologum, œ hverium minna reid i hanns Hwse? Eg mœ segia med Asaph: Eg hugsade um Þad, hvert eg giæte skiniad Þad, enn Þad var mier ofÞwngt, Ps. 73. v. 16. DRottenn, hvernenn eru Þijner Þœnkar so møg diwper? Ps. 92. v. 6. Ordsoken er hier til, Guds Oumrædeleg Myskun, œ hveria oss ber hier miklu framar ad minnast. Af Þvi sœ Daude liggur i Hvijld, so gef Þu einnenn upp, til hanns ad hugsa, seger Syrach, Cap. 28. v. 24. Eg vil Þa minnast Myskunsemdar DRottenns, og Þess Lofstijrs DRottenns, i ollu Þvi, er DRottenn hefur giort vid oss, Es. 64. v. 1. David minner oss nærsta eptertakannlega hier œ, segiande: Hversu dijrmæt er Þijn Myskun, DRottenn, Ps. 36. v. 8. Þad getur eingenn mæted, hversu dijrmæt ad er DRottenns Myskun, Þvi hun er dijrmætare, betre enn Lijfed, Ps. 63. v. 4. A medann DRottenn lætur af henne yfir oss framsfloota sijna andlega og lijkamlega Vel-

 giorn-

giørninga, þa er eins og vier vitum ei hvad vier medtokum eda þyggium, edur af hverium; Vier erum a medann eins lynder og Moses: Hann visse ad hann var ad tala vid DRottenn, enn þeckte þo ei hvernenn DRottenn var Asyndar, beiddest þvi ad meiga sia hann, hvad hann þo ei feck augliooslega, heldur a Bak DRottne, 2. Mos. B. 32. So saaum vier og opt fyrst epterleides skiled Guds Myskunseme vid oss framkomna, i adskiliannlegre Vidhondlan, so sem nu skedur, þvi þad er hinn allra stærste Guds Velgiorningur, þegar hann gefur oss Yfirmenn, sierdeiles þegar þeir eru goodum Kostum bwner, rett Dygdum prijdder, og i goodum Verkum stunda þad Umbod og Embætte, sem þeim er tiltrwad og a Hendur faled, þeir gediast Gude og Monnum vel; Hveriu JEsus sialfur lyser, Matth. 24. v. 45.-47. þar hann seger: Hver hann er trwr Þioon og forsiall, sem Herrann hefur sett yfir sijn Hiw, ad hann gefe þeim Fædu i rettann Tijma. Sæll er sa Þioon, nær hanns Herra kemur, og finnur hann so giøranda, sannlega sege eg ydur, ad hann mun setia hann yfir øll sijn Audæfe.

Þad er Natturunnar Logmal, og sijdann Guds Vilie, oss, i hanns H. Orde auglystur, ad vier skulum vera hver med odrum, Limer a einum Lijkama Christi, sem er hanns Sofnudur hier a Jordunne, hver epter sinne Deild, 1. Cor. 12. v. 27. þar inne þioonande hver odrum, 1. Pet. 4. v. 10. i Kiærleika. Skule þetta vel hia oss framfara, hlijtur þar medal vor vera Regla, Niðurradan og good Skickan: Einn Yfirbodenn stioornande, annar Undergefenn þioonande, og þetta beggia sem annars. Yfirbodner kioosa giarna gooda Underhafande, Undergefner vilia giarna þioona goodum Herrum; Þvi betre sem Herrarner eru, þvi meir keppast Menn ad komast i þeirra Þioonustu; Þvi ædre einn Herra er, þvi meire Æru telia Menn sier ad vera hanns Þenarar. Konunganna Þenara, sem jafnadarlega standa frame fyrer þeim, kalla Menn sæla; So sem Drottningen af Rijke Arabia sagde um Salomonis Foolk og Þenara: 1. Kong. B. 10. v. 8. Sælt er þitt Foolk og þijner Þenarar, sem alltijd standa fyrer þier, og heyra þinn Vijsdoom. Hver er slijkur Herra, sem Gud vor Gud? Hann er Konungur Konunganna, 1. Tim. 6. v. 15. DRottenn yfir ollum Drottnum, Opennb. B. 17. v. 14 Þviad þu DRotten ert sa hinn hærste i ollum Londum, þu ert miøg upphafenn yfir alla Gude, Ps. 97. v. 9. Þvi ædre sem hann er, þvi heidurlegra, þvi æruverdugra, þvi meire Heidur og Æra er ad heita, og i Raun og Sannleika vera hanns Þioon; Herra Tign einga, ad Heimsins Sid, held eg þar meiga jafnast vid. Hiner volduguftu Kongar a Jordunne, hafa taled, og telia sier enn þessa Æru, þvi kalla þeir sig

af

af Guds Naad Konga, i Titlum og þeirra Brefum, Skipunum og Skickunum; Hvad er þad annad enn Guds Þioona? David talde þetta sijna mestu Æru, ad heita Guds Þioon, þvi seger hann: O DRottenn! Eg em þiñ Þioon, eg em þinn Þioon, Sonur þiñar Ambꝍttar, Ps. 116. v. 16. og var hann þo hinn megtugaste Kongur i sinne Tijd. Moses var af Gude tilsettur Hertoge yfir hanns Foolke Israel, og þess lijkamlegur Frelsare, hann kallar DRottenn wtþryckelega sinn Þioon, 4. Mos. B. 12. v. 7. 8. Hvad vil eg telia til þessa Æru-Nafns og Titels synduga Menn? David nefner so Englana, þar hann seger: Sijna Engla giorer hann Anda, og sijna Þenara Ellds-Loga, Ps. 104. v. 4. Siꝍlfur hinn sanne Gud, 1. Joh. 5. v. 20. JEsus Christus Guds Son, sem er Hofdinge Jardarennar Konga, Openb. B. 1. v. 5. hefur þetta Nafn, Þioon, Es. 42. v. 1. Cap. 49. v. 6. og Þioons Mind, Phil. 2. v. 7. uppꝍ sig teked; Hvilijk Æra er þad þꝍ fyrer synduga Menn, ad Menn kalla þꝍ Þioona vors Guds? Es. 61. v. 6. Aller skapader Hluter þioona ad sonnu Gude, og allt hvad Lijfs Anda hefur, er honum undergefed; Þo teiknast Guds Born, þeir Trwudu heldst med þessu Æru Nafne. Þad hefur vered, og er enn sꝍ Allsar Hꝍttur, ad Menn gꝍngast fyrer margyrdtum Titlum, mikellshꝍttar Nofnum, og stoorum Nafnbootum; So lꝍtur DRottenn Nathan Spꝍmann segia til Davids: Eg hefe giort þier eitt Nafn, so sem þeir enu stooru ꝍ Jordunne hafa Nafn, 1. Chron. 18. v. 8. Enn hvad eru þau Nofn eda Titlar, sem Mennerner smijda sier edur odrum? Einn hlioomande Mꝍlmur, eda hvellande Bialla, 1. Cor. 13. v. 1. hiꝍ þessare Nafnboot og Æru-Title, ad heita Guds Þioon; Sem DRottenn kallar sitt Foolk: So heyr nu minn Þioon Jacob og Israel, þann eg hefe wtvaled, Es. 44. v. 1. Þessu lijkest þad, er Menn kalla Hiw sijn og Heimiles-Foolk, sijna Þenara. Ecke talar DRottenn um alla Menn yfir Hofud sameigennlega i þessum Ordum: Hver hann er trwr Þioon og forsiꝍll; Heldur um soddann, sem fꝍrre eru, og fꝍrre finnast; Fyrst ad Þioonustunne siꝍlfre, edur Astandenu, i hverin þeir þioona, og hvad þeir eiga ad giora; Þar nꝍrst ad Mꝍtanum edur Adferdenne, med hverre Þioonustan er af Hende leyst.

DRottenn seger þad siꝍlfur med þessum Ordum: Hvern Herrann setur yfir sijn Hiw. Guds Hiw eru aller Trwader, enn þeir kallast Þioonar, sem hann setur yfir Hiwen, og felur þeirra Umhyggiu ꝍ Hendur. Soddann Þioonar, voru Guds heilogu Postular, hverium Gud hafde fenged i Hendur, alla Stioorn og Umonnun fyrer Christnenne, þa hun skylde wtbreidast um Heimenn. I þessara Guds Þioona Stad, (Postulanna) hefur

hefur Gud sett adra Pioona, sem Postulenn Paall vitnar, segiande: Gud hefur sett i Sofnudenn i fyrstu Postula, þa Spaamenn, i þridia Maata Lærefedur, 1. Cor. 12. v. 28. so sem hann giører enn, þvi þessa Lærefedur setur hann yfir sijn Hiw, suma yfir færre og minna, suma yfir fleire og meira. Moses sette, epter Raade Jethro Maags sijns, Hofdingia yfir Þusund, yfir Hundrad, yfir Fimtyger, yfir Tiju, 2. Mos. B. 18. v. 25. Þesse Nidurradan finnst i øllum Londum, lijka vel medal Heidenna; Sialfur Gud, sem er Gud goodrar Skickunar, hefur hana stadfest, med þvi ad brwka hana i sijnum Søfnude, so eingum verde hanns Verk ofþwngt, heldur ad hver gete þad framkvæmt sem honum er boded, med Tryggd og Forsiaalne.

Hvør hann er trwr Pioon og forsiaall, seger Christur. Þessar tvær Dygder, Trw og Forsiaalne, lofast og prijsast a øllum Pioonum, og wtheimtast af þeim. Trwen (Tryggden) er sameigennleg, bæde þeim Pioonum, sem Herrann setur yfir sijn Hiw, so sem Hiwunum sialfum; Enn Forsiaalnen er ei øllum gefinn, heldur wtbyr Gud sijna sierlega Pioona med henne, og gefur þeim Skilning i øllum Hlutum, 2. Tim. 2. v. 7. so þeir vite hvørnig þeir skulu umgangast i Guds Hwse, sem er Sofnudur Guds lifanda, 1. Tim. 3. v. 15. Baadar þessar Dygder, Tryggden og Forsiaalnen, eru so sem þeir tveir Onyx Steinar, sem Aaron skylde bera a sijnum Oxlum fyrer DRottne, til Minningar, so sem Urim og Tummin, Lioosed og Retturenn i hanns Breioost-Skylde, 2. Mos. B. 28. v. 9. - 12. - 30. Þad er rett prijdelegt Hroos, ad forþena þad med rettu ad heita Trwr, þad er ei einasta dijrmætt og rett ypparlegt halded medal Christenna, þvi þar er eingenn Christenn betre, enn sa sem er trwr i Goodu. J øllum lijkamlegum Hlutum, er Tryggd og Trwmennska so ágiæt halden, ad hun er af øllum Dygdum mest metenn: Menn gaangast so miøg fyrer henne, ad þeir leita hennar um allann Heim, aller vilia hana sia og henne naa; Þo finna Menn hana ei allstadar i hvøriu Hwse. Mijn Augu lijta epter þeim Trwlyndu i Landenu, seger David, Ps. 101. v. 6. Ecke geingur Tryggden øllum alltijd i Augu, þvi hun er opt so sem hulenn Fiaarsioodur, af hvørium Menn eckert vita; Þvi kallar David þa Trwlyndu hulda, Ps. 83. v. 4. og Petur, hann hulda Mann Hiartans, 1. Pet. 3. v. 4. Hun er opt sem dijrmæt Perla, i Oaalitlegre Skurn, hvar vid Maaltæked sannast: Opt er Dygd under døckum Haarum. Aller vier erum so lynder, ad vier giarnann vilium hafa gooda og frooma Pienara, Ps. 101. v. 6. Þvi underhyggiusamt Foolk, lijdum vier varla i vorum Hwsum, v. 7. Lijtum vier ei aller og spyriumst fyrer Tryggd og Froomlynde,

þegar

þegar vier rædum oſs Foolk og Hiw til Þioonuſtu? Hvad miked þiker oſs rijda a Trw og Tryggd i Vinſkap og Vinfeinge? Þvi einn trwr Vinur er ein Huggun alla þa Stund ſem Madurenn lifer, ſa er Ottaſt Gud, fær ſoddann Vin, Syr. 6. v. 16. So miked kvedur ad þeſſu, ad vier metum þeſſa Dygd hia ſkinlauſum Skepnum, þvi oſs þiker lijka vænt um fylgeſpakan Racka. Þar ollum finnſt ſo almennelega miked um þeſſa Dygd, munde þa hann ei aliijta Tryggdena, ſem ſialfur er Trwlyndur, Eſ. 49. v. 7. Trwr og Sannarlegur? Openb. B. 19. v. 11. Jw, viſſulega, þvi þeir ſem trwlega handla, lijka honum vel, Ordskv. B. 12. v. 22. Hver hann heſur trwtt Hiarta, þeſs Vinur er Kongurenn, Cap. 22. v. 11. Þeſs vegna vill hann ſijner Þioonar ſieu trwer. Hvør hann er trwr Þioon, ſem Herran ſetur, etc.

1. Trwr ſijnum Herra og Hwsboonda. Menn heimta ei meir af Verkſtioornurunum, enn þad þeir finneſt trwer, 1. Cor 3. v. 2. Þad var Bæn Jacobs, til hanns Sonar Josephs, þa hanns Andlaats Tijd nalgadeſt: Ad þu vilier audſyna mier Kiærleika og Trw, 1. Moſ. B. 47. v. 29. Þad er allra ſtærſte Miſmunur, hvad Menn knijr til ad geſa ſig og lia odrum til Þioonuſtu, hvert þad er eigenn Avinningur, edur Hreinſkilne i Froomleika, ſem Chriſtur bijdur, ſegiande: Laated ſo ydar Lioos lijſa fyrer Monnum, ad þeir ſiae ydar Goodverk, og dijrdke Fodur ydar ſem er a Himnum, Matth. 5. v. 6. Sie Þioonenn trwr, ſo ſyner hann Alvoru i ad taka ſijns Herra Verk a Hendur, og þioona trwlega; Ecke med Þioonuſtu fyrer Augunum, Monnunum til Þocknunar, heldur giorer hann þenna Guds Vilia af Hiarta med goodum Vilia, Eph. 6. v. 5.-8. Trwen (Trygden) auglyſer ſig þa, verkande Aſtundan i Þolenmæde, ſo Menn eru ei later, i þvi þeir eiga ad vinna, Rom. 12. v. 11. Þreytaſt ecke, þvi a medann þeir finna Lijf i ſinne Hende, mædaſt þeir ecke, Eſ. 57. v. 8. Þeir megna alla Hlute, fyrer þann ſem þa mattuga giorer, ſem er Chriſtur, Phil. 4. v. 13. Hita og Þwnga Dagſins bera þeir viliuger, Mæda og Erfide er þeim kiært; Þvi þo einn Guds Þioon erfide miklu meir enn aller adrer, þa ſeger hann ei annad þar um enn þetta: Þo ecke eg, heldur ſw Guds Naad, ſem med mier er, 1. Cor. 15. v. 10. Og ſo ſem Skallded: Embættes Omak langt, opt þo mier finneſt ſtrangt, &c. Hann trwer ſialfur HErrann hafe ſijna Hond i Verkenu, bleſſe þad og farſæle, legge ſialfur Raaden a, gefe Raadunum gooda Framkvæmd og Endalok, ſo Guds Dijrd verde wtbreidd, hanns Rijke auked, hanns Nafn helgad, og þar epter aunned og uppſkored Hundradfaldt, Sextugfaldt, Þrijtugfaldt, af ſumum Tvo Pund, af ſumum Þriw Pund, af ſumum Fim, af ſumum Tiju. So ſem trwr Þioon giører

ei

greina, einkum þar þad er ødur a Prent wtgenged. (*)

Af þessu saa, nu er tiint, maa raada, ad vor Sæl. Biskup er komenn af ypparlegasta Foolke, bæde i Fødur - og Moodur-Ætt siina. Epter þad Hann fyrer H. Vatns Skiirn, var inntekenn i Guds Naadar Sattmaala, Olst Hann upp hiaa velnefndum siinum Foreldrum, enn miste sinn elskulega Fødur, þa Hann var komenn aa 13da Vetur, sorsoomade þo ei Hanns Sæl. Mooder ad hallda Honum til booklegra Menta (med hveriar Hann hafde fyrer saum Arum byriad, under Tilsøgn siins Sæl. Fødurs) hvers vegna Hann naut siidann Heima Kennslu, lengstum hiaa þeim lærda Manne, Sr. Jone Sigurdar Syne, er þa var Prestur ad Eyre, og Prosastur i Isafiardar Sysslu; Sende hun Hann siidann i Skalholts Skoola, hvar Hann naut Uppfrædingar um 2. Vetur, af þa verande Skoolameistara Jone Þorkels Syne, hvør Hann þadann med agiætum Vitnesburde wtskrifade, 1736.

Þaa Otradals Presta-Kall vard lidugt, 1740. feck vor blessade Biskup Veitingar Bref fyrer sama Stad, enn þar Hann hafde þa ei uppfyllt siin 25. Aldurs Ar, undandroost Hanns Viigsla til næsta Ars, þa Hann var til þess H. Prests og Predikunar Embættes innviigdur af Sæl. Biskupenum Mag. Jone Arna Syne; Skomu siidar, nefnelega: 1743. var Hann

 af

(*) Hier um maa framar lesa Ættartølu Biskupsins Sæl. Hr. Gisla Magnuss Sonar, sem fylger hanns Æfi, og innfærd er i þa þryckta Lijk-Predikun epter hann, hvar lagfærast eiga þesse Feil: Pag. 14. Lin. 7. les: Veitingar Bref fyrer Grenjadar - og Þverar Soknum. Pag. 16. Lin. 2. les: Geyrs Syne ad Laufaase. Pag. 17. Lin. 10. adgiætest ad Griimur var Frillu Son Pals Brands Sonar, og af þvi Efne spunnust laangsamar Arfa Þrætur. Pag. 21. Lin. 34. Fyrer Dootter lesest; Syster. conf. ibid. P. 17. L. 35

af þa verande Profaste yfir Skalholts Stifte, nu Hæ-Edla og Hæ-Æruverdugum Hr. Biskupenum Doct. Finne Jons Syne, tilsettur Profastur i Bardastrandar Sysslu, i hvøriu Embætte Hañ þioonade i 13. eñ i Prests Embætte þar vestra nær 15. Ar.

Þegar sa merkelege Guds Madur, Biskupenn Hr. Olafur Gisla Son, visiterade Bardastrandar Sysslu, sann hann hiá Profastenum Sr. Jone Teits Syne þvilijk Kenneteikn, er giørdu Hann so audkenndann, ad Hann ødrum framar, ætte ad flytiast til betra Kalls, og gaf Biskupenn Hr. Olafur þad sama til Vitundar, þvi Hæloflega General Kyrkiu Inspections Collegio, sem tilkynnte sinn nædugañ Vilia þar til; Hvers vegna, þegar væntannlegt var, ad Stadastadar Prestakall yrde liduɡt (þar vor hæsæle og elskulege Biskup, Gisle Magnuss Son, sem þa hieldt Stad, var kalladur til Kaupenhafnar, Mootttoku veita þvi hier liduga Biskupsdæme) sigldе sam-Sumars (1754.) Profasturenn Sr. Jon; Enn med þvi Stadastadur var þa ødrum af Konunglegre Hætign veittur, þa feck sa loflege Herra Amtmadurenn Magnus Gisla Son, næduga Aviisan frá Kaupenhafn, ad meddeila Profaste Sr. Jone Teits Syne, hvert af þeim betre medalmæta Braudum, hier i Lande falla kynnu, og Hann vilde umsækia. Skede þa so, ad sa Æruverde Guds Mann, Sr. Ingemundur Gunnars Son, fyrer sæluhialplegañ Dauda burtkalladest frá þessa Lijfs Armædu, Ared 1755. og feck þa Profasturenn Sr. Jon Teits Son epter hañ Gaulveriabæ i Flooa, til hvørs Stadar ad liggur Stocks-Eyrar Sookn ä Eyrarbacka. Epter þad Profasturenn i Arness Sysslu, Velæruverdugur Sr. Halldor Finns Son, viek vestur ad Hytardal, var Sr. Jon strax tilsettur ad vera Profastur i Arness Þijnge, og ædur, i Forsøllum (S. T.) Biskups Doct. Finns, visiterade Hann 1775. Snæfells- og Hnappadals-Sysslur, og Ared epter Bardastrandar Sysslu.

Epter

Epter þad Biskupsdæmed að Hoolum vard lidugt, 1779. vard vor hæsæle Biskup, fyrer Guds sierlega Raadstøfun, og þeirra er þar aattu Hlut ad, epter Konglegre Skickan, fyrer þvi, ad reisa til Kaupenhafnar, ad taka moot þvi vigtuga Biskups Embætte. Hann reiste þess vegna hiedann fraa Landenu med Eyrarbacka Skipe, wr Selvoge, 31. Augusti, 1779. enn kom til Kaupenhafnar 15. Sept. hafde sijdann Adgang til nockra mestu Manna i Stadnum umm Veturenn; Vard Corresponderande Medlem af þvi Kongl. Danska Landhuusholdnings Selskab, samt Membrum Ordinarium af þvi nij uppretta Islendska Literatur Selskab. Þann 24. Apr. 1780. medtook Hann sijna Bestalling fraa Cancellienu, hvar uppaa Hann vijgdest i Vor-Frwe Kyrkiu þann 7. Maji til þess hævigtuga Biskups Embættes, af Hra-Edla Hra-Æruverdugum Hr. Ludvig Harboe, Sioolands Biskupe. Þann 9. Junii foor Hann fraa Kaupenhafn, kom aa Vorlaaks Hefn þann 15. Julii, epter vel afstadna Reisu, og naade Slisalaust hijngad ad Hoolum þann 23. Sept. var Honum aan Undanndraattar afhendt, Biskupum hier tileinkud Heima-Hws, einnig Alag aa þau og wrdaud Kwgylde, samt annad er Hann medtaka atte af Stiftesins Profaste, hvad allt afgeck i vinsemdarfullre Sameining þeirra aa mille. A næstlidnu Vore byriade Sæl. Hr. Biskupenn sijna Yfirferd umm Skagafiardar Sysslu, reiste þar epter sudur aa Land, til þeirrar allranaadugast uppaabodnu Biskups Stoola Commission; Og afhendte i sømu Ferd Gaulveriabæar Kyrkiu og Stad. Ad endadre þessare Reisu, visiterade Hann Utkialka Skagafiardar- og Vadla-Sysslna, hieldt Synodum aa Flugumijre, og vijgde einn Prest, Sr. Jon Magnuss Son, Capellan ad Hoskuldsstodum.

Degenum epter Allraheilagra Messu, fann Hann til Krankleika Venju framar, og, epter sem formerktest, snerest Hanns Soottarfar ad lidenne Viku, so miøg þverrudu Lijkam-

 anns



anns Burder. Lokſens, fyrer hægt og ſælubkaſplegt Andlat, afhendte Hann ſijna dijrkeyptu Sal ſijnum Frelſara, um Morgunenn Kl. 4. þeſs 16. Novembr. i Vidurviſt Velæruverdugs Domkyrkiu Preſtſins Sr. Þorkells Olafs Sonar, og Chirurgi Sgr. Jons Peturs Sonar, aſamt annara, er til Stadar voru, Honum mogulegt Hagræde og Þenuſtu ad veita. Lokſins er Hanns andvana Lijkame, med tilhærelegre Virding, i Vidurviſt margra goodra og gøfugra Manna, lagdur til ſijns ſijdarſta Hvijldarſtadar, fyrer framan midiar Kordyr i Hoola Domkyrkiu, þann 28. ſama Manadar, þa yfir Honum ſaung og predikade Velneſndur Domkyrkiu Preſturenn Sr. Þorkell.

Vier høfum ſo ſtuttlega heyrt þeſs Sal. Herra Lijfs Inngang, Framgang og Utgang, enn meigum jafnframt ei gleyma Hanns perſonulegu Atgiørfe og lijkamlegre Hagſæld; er Gud hafde Hann med prijdt. Sa Sal. Herra var med hærre Medalmonnum, ei afar frijdur, enn þo fyrermannlegur, brauſtur ad Afle, optaſt heilſugoodur, Verk-hagur og Verk-idenn: J Hwſsſtioornenne framſynn og framkvæmdarſamur: J Vidſkiptum rettſynn og rædvandur: J daglegre Umgengne lijtelatur og ſtilltur vel. J ſijnum Embættes Verkum koſtgiæfenn og øruggur, ſoorn þau og Honum vel, þvi med Lempne fylgde Røggſemd, og med vel grundadre Þeckingu a Guds Vilia, og þeirra Gagne, er Hann var yfer ſkipadur, var æ ſamferda ſannur Guds Otte og Vandlæting; Hvad Hann ei einaſta ſynde, medann Hann var Veſtra, heldur og fyrer Sunnann, hvar Hann took vid enum Foolk-rijkuſtu Sooknum hier a Lande, og gafſt Honum þa Tækefære, med alvørugefnum og kiærleiksfullum Eptirrekſtre, ad hagtæra þvi vigtuga Punde, Gud hafde Honum til Medferdar a Hendur faled, til ad leidretta Sidu Manna i Sooknunum, hvar vid þurfte; og framfylgia Ungdoomſins Uppfrædingu; Hvad ei heſur ſked an ſtoorrar Mædu, ſem nærre mætte geta; Enda tookſt Honum þad Starf vel, og avann Honum meir

meir og meir Ottablanded Astrijke og Velvild þeirra, sem Hann atte vid ad skipta.

I sijnum Giftingum audsynde Gud Honum eina Luckuna annare hærre. Hanns fyrre Hwsfreya var sw Ættgøfuga Hofdings Kvinna, og Hanns Systkyna-Barn Halldora, Dootter Sr. Sigurdar Sigurdar Sonar, i Holte vid Onundar-Fiørd, og Astu Paals Doottur, Sysslumanns Torfa Sonar: Feck Hann til Framkvæmdar þessa sijns Radahags Kongs Leise, dat. 7. Jan. 1736. Med Sælugu Halldoru aflade Hann þriggia Barna, af hverium eitt lifer, nefnelega Æruverdugur Kennemann Sr. Teitur, Capellan i Gaulveriabæ. Þessarar sinnar Hwsfrwr miste vor Sæl. Herra, Ared 1753. epter þad þau hefdu i heilogum Hiwskap samann vered hier um 17. Ar. Sijdar gifteſt vor Sæl. Herra, skømu epter þad Hann var komenn ad Gaulveriabæ, Hanns nu sært harmande Frw, Frw. **Margrete**, Doottur vors loflega Biskups, Doct. Finns Jons Sonar, og þeirrar ægiætu og mørgum Harm-daudu Frwr, Sæl. Gudrijdar Gijsla Doottur; Hefur Gud blessad þeirra Hioona-Sæng med Tiju Børnum, af hverium Fiogur eru undann komen æ Land Lifendra, enn Sex eru nu lifande, og til Giftu boren.

So daudsamlega hefur DRottenn slutt Þenna sinn Heilaga. Og hvar fyrer þocknadeſt DRottne so? Til þess ad syna, og læta siaa hann hefur Magt, ad giøra vid sijna þad hann vill. Hier var Guds Hønd og Rand, sem kennde Hønum ad giøra epter sijnum Vilia. Hier var Guds Ande, sem leidde Hann æ rettum Vege, Ps. 143. v. 10. Grætte þvi ecke Hanns Epterlætner, þvi hier um mæ segia sem DRottenn sagde vid Petur fordum um Foota Þvottenn: Hvad eg giøre veitstu nu ecke, enn skirna meir skalltu skilia þad, Joh. 13. v. 7. Þetta er Mannsins Vegur, hønum af Gude gegnum Lijfed ætvardadur til Daudanns; Daudanns Vegur liggur i gegnum Grøfena til Upprisunnar, þess dijrdarlega

Frelſes

Frelses Guds Barna, Rom. 8. v. 21. Skilnadur þeirra Lifendu fraa þeim Framlidnu, vid þenna Veg alls Holldz, verdur opt yfred saar og þwngur, so sem øll ønnur Typtun, sem, aa medann hun aaliggur, þiker hun eingen Glede, helldur Hrygd vera; Enn epteraa mun hun gefa fridsamleganu Avøxt Rettlætesins, þeim sem þar inne eru ydkader. Þvi ef þier Typtunena þoled, þaa frambijdur Gud sig ydur so sem Børnum, Ebr. 12. v. 7.-11. Fagned þvi og vered glader, þetta mun betalast ydur aa Himnum, Matth. 5. v. 12. Þvi vor Hrygd, sem stundleg og lett er, giører oss eina eilijfa og yfir allann Maata mikla Dijrd, 2. Cor. 4. v. 17. sem erum fyrer JEsum Erfingiar eilijfs Lijfs epter Vonenne, Tit. 3. v. 7. Blessadur sie Gud og Fader vors DRottenns JEsu Christi, saa oss hefur epter sinne mikelle Myskunseme endurfædt til lifande Vonar, fyrer Uppriisu JEsu Christi fraa Daudum, til Oforgengelegrar, Ofleckadradrar og Oumskiptelegrar Arfleifdar, sem vardveitest ydur aa Himnum, þier sem af Guds Magt fyrer Trwna vardveitter verded, til Saaluhiaalpar þeirrar sem tilreidd er, þad hun opennberverde aa sijdurstu Tijmum. J hverre þier munud glediast, þier sem nu litla Stund, þo þad ætte so ad vera, hryggver erud i margvijslegum Freistingum, uppaa þad, ad ydar Trw, retteleg og miklu dijrmætare funden verde, enn þad hid forgengelega Gull, sem i Ellde reynt verdur, til Lofs, Dijrdar og Heidurs, nær ed JEsus Christus mun opennberast, 1. Pet. 1. v. 3.-7.

# Utleggingen.

Sijdann Daudenn fyrer Syndena innkom i Heimenn, hefur hann so mutbreongt sier til allra Manna, Rom. 5. v. 12. ad þeim er aaseitt ad deya, Ebr. 9. v. 27. epter þessum fornu hinns lifanda Guds Aløgum: Þu ert Jord, og þu skalt aptur ad Jordu verda, 1. Mos. B. 3. v. 19. Daudenn fylger æ sijdann Lijfenu, og Lijfed Daudanum: Þar af vita hiner Lifendu ad þeir skulu deya, enn hiner Daudu vita ei par, þeir forþena og ecke meir, Þvi þeirra Minning er gleymd, so ad Menn elska þaa ei nie hata nie

ofunda,

ofunda, og einga Hlutdeild hafa þeir framar i Veroldenne, af ollu þvi sem skier under Soolunne, Pred. 9. v. 5. 6. Skal þa ad eingu verda Minning þeirra trwu og forsiaalu Guds þioona? Eda skal þeim verda forgleymt i Hiartanu, lijka sem Framlidenns, Ps. 31. v. 13. sem i Lijfenu ecke hafa lifad siaalfum sier, ecke i Daudanum daed sier, heldur lifad og daed DRottne, Rom. 14. v. 7. hverra Daude er þess vegna dijrmætur haldenn fyrer DRottne? Ps. 116. v. 15. O nei! Laangt er fra þvi ad þeirra Minning sie gleymd, þvi Minning Rettlaatra blijfur i Blessan, Ordskv. 10. v. 7. hia þeim Lifande. Gud er ecke ranglaatur, þad hann gleyme þeirra Giorninge og Kiærleikanns Erfide, sem þeir audsyndu i hanns Nafne, Ebr. 4. v. 10. Þess vegna hefur hann laated þeirra Verk og Athafner fra Aldodle uppteikna, og geymer þær siaalfur til æfe ennlegrar Minningar, ofs til Lærdooms, ad vier fyrer Þolennmæde og Huggun Ritningarennar hefdum Vonena, Rom. 15. v. 4. Lijkamenn andvana er fyrer vorum Augum lagdur i Grofena, og þar hulenn Jordu, af hverre hann var i Ondverdu tekenn, 1. Mos. B. 3. v. 19. Þar liggur Hollded ugglaust, Ps. 16. v. 8. og hvijler i Vonenne, Post. G. 2. v. 26. Enn Verken dyliast hverke nie grafast þar, heldur hvar Mannsins er geted, sem bæde opt og vijda skedur, mun sagdt verda i hanns Minning hvad hann hefur giordt, Matth. 26. v. 13. Drottenn merker þad og heyrer þad, og þad er eitt Minningar Bref fyrer hann skrifad, Mal. 3. v. 16. Þvi hinns Rettlaata Nafn stendur a Lijfsins Book, Opennb. 3. v. 5. Hanns Verk og Laun lijka, Cap. 20. v. 12. Þeirra verdur minnst, og þau verda upptalen, þa Dagurenn mun augliooft giora hvers eins Verk, 1. Cor. 3. v. 13. a hverium DRottenn opnar Grafernar, og wtleider sitt Foolk af þeim, Ezech. 37. v. 12. og lætur hina Daudu lifa, og med Lijkomunum uppe rijsa, Es. 26. v. 19. Þa mun þeckiast Hond DRottenns a hanns þioonum, þegar hann kemur og samannsafnar þeirra Verkum, Es. 66. v. 14.-18. Þvi þeir Rettlaatu skulu lifa eilijflega, og DRottenn er þeirra Verdlaun, og sa hinn Hærste ber Umhyggiu fyrer þeim; Þar fyrer munu þeir odlast eitt dijrdarlegt Rijke, og Fegurdar Koronu af Hende DRottenns, Spek. B. 5. v. 16. 17. Skule Guds trwu og forsiaalu þioona Verka verda minnst i Endurfædingunne, Matth. 19. v. 28. og þar meten til Vidurlags og Launa i Eilijfdenne, þvi skyldum vier þa ei minnast a þau i Tijmanum, hverium þau eru skrifud til Fyrermindar? Þad er bæde fyrer Gude og Monnum tilheyrelegt og rettvijst. Þenked a ydar Lærefedur, þeir ed Guds Ord hafa sagdt ydur, ad hverra Afe lokum þa hyggied, og epterfylged þeirra Trw, Ebr. 13. v. 7. Þesser Lærefedur eru Guds þioonar. Hver Madur halde ofs fyrer Christi Þenara, og Verkstioornara yfer Guds Leyndadooma, 1. Cor. 4. v. 1. Þeirra Verk og Laun



eigum

eigum vier nu af og epter vorum heilaga Texta og Yfirvegunar-Ordum ad hugleida og adgiæta:

1. Verken.

Þaa hann hafde aa siinum Tijma þenad Guds Vilia (Raade)

2. Launen.

So sofnade hann burt, og er lagdur til Fedra sinna.

I. Þegar vier yfirvegum Verk og Laun hiña trwu og forsiaalu Guds Þioona, þaa siaaum vier, ad jafnvel þo Verken telieſt edur eigneſt þeim, þaa er þo Gud hann, sem verkar bæde Viliann og Giorningenn epter sinne Velþocknan, Phil. 2. v. 13. Þvi vier erum hanns Verk, skapader i JEsu Christo til goodra Verka, til hverra Gud hefur oss aadur fordum fyrerbwed, ad vier skyldum þar inne gaanga, Eph. 2. v. 10. Launen eru einnenn Guds; Guds Gaafa er þad, seger Paall, Eph. 2. v. 8. þvi Guds Naad og Gaafa er rijkuglega sked marga fyrer JEsum Christum, Rom. 5. v. 15. Guds alvitra Forsioon og almattuga Vidhald, metur, aakvardar og tilskickar hverium og einum siinum Þioon, sitt Verk og Þioonustu: Hvad hver skule giora og adhafast: Hvernenn hver einn skule þad Verk af Hende leysa, sem honum er boded: Hvar, aa hverium Stad og Tijma þad skal framkvæmast. Epter þessare Guds Raadstofun, skal hver og einn trwr og forsiaall Guds Þioon, þioona aa siinum Tijma Guds Raade og Vilia. Hier er Guds Stadur, sem hann skal þioona i Guds Vilia (Raade) aa siinum Tijma; Þad er ei einasta Guds stoore Stadur Ninive, i hverium Spaamadurenn Jonas þioonade aa siinum Tijma Guds Raade, Jon. 3. v. 1.-4. heldur Borg (Stadur) Guds lifanda, himnesk Jerusalem, Samkunda Frumgetenna, hverier upp eru skrifader aa Himnum, Ebr. 12. v. 22. 23. sw mikla Borg, sw heilaga Jerusalem, sem hefur Guds Dijrd, Opennb. 22. v. 10. 11. Guds Hws, sem er Sofnudur Guds lifanda, Stoolpe og Grundvallan (Stadfesting) Sannleiksins, 1. Tim. 3. v. 15. Guds Christne og Kyrkia, Samneyte Heilagra aa Jordunne, hvar inne ad er Vidurkenning Sannleiksins til Gudhrædslunnar, Tit. 1. v. 1. sem aller Trwader jaata og vidurkenna med Munnenum, og trwa i siinu Hiarta, Rom. 10. v. 9. ad JEsus sie DRottenn, til Dijrdar Guds Fodurs, Phil. 2. v. 11. Hier er Guds Tijme. Er þijn Tijd so sem Mannsins Tijd? Eda þijn Ar so sem Mannsins Ar? Seger Job til DRottenns, Cap. 10. v. 5. O nei! Heldur er DRott-

enn

enn ſcæ ſem tilſetur Tijmana, Dan. 2. v. 21. Madurenn veit þetta að ſonnu, enn hann kemur þvi ecke alltijð fyrer ſig, þvi Madurenn veit ecke ſinn Tijma, ſeger Predikarenn, Cap. 9. v. 12. Það er ei heldur Mannenum gefed, þvi ydur ber ei að vita Tijma edur Stunder, hveriar Faderenn ſette i ſiælfs ſijns Valde, ſeger ſiælfur JEſus, Poſt. G. 1. v. 7. vid ſijna Læreſveina. Gud alleina hefur ſett Tijma og Takmork, ſem ædur var fyrer ſied, hvad vijdt og længt hver ſkylde bwa, Poſt. G. 17. v. 26. Þeſſe Tijme wtmælaſt hier i Textanum, med þeſſum Ordum: A ſijnum Tijma (J ſinne eigenn Tijd) Hvert Orda-Tiltæke merker og tekſt fyrer eina Olld, er vier kollum Hundrad Ar; Lijka tekſt það fyrer Manns Alldur edur Æfe, hvert heldur hun kann að komaſt hætt, og vera Attatyger Ar, edur ei vara nema Siotyger Ar, Pſ. 90. v. 10. Fimtyger, Priætyger, eda færre. Þetta er Mannſins Tijme, ſem Gud tilſetur honum ſamtijda odrum að lifa, og þioona ſijnum Vilia og Rađe a; Þvi ei fær hier til aller jafnann Tijma; Einum verdur gefenn þeſſe Tijme leingre, odrum ſkemre. Forfedurner, þeir Menn ſem lifdu fyrer Flooded, hofdu leingre Tijma ad lifa a, og lijka til að þioona Guds Rađe og Vilia, enn Mennerner epter Flooded; Þeſs vegna hafde Noe, ſa Rettlætes Predikare, 120. Ar hier til, 2. Pet. 2. v. 5. 1. Moſ. B. 6. v. 3. Jonas Spæmadur þar a moote eina 40. Daga, að predika fyrer Ninive, Jon. 3. v. 4. Siælfur JEſus brwkade hier til 30. Ar, epter Mannſins Tijma. Moſen liet hann gænga 40. Ar wt og inn fyrer ſijnu Foolke i Eydemorkenne, 4. Moſ. B. 14. v. 33. 34. David ſtioornade Jſrael 40. Ar, 1. Chron. 30. v. 27. = 30. Hwſsfaderenn, ſem wtgeck að leigia Verkamennena i ſinn Vijngard, leigde ſumꝫ um Morgunenn, lijka um þridiu, ſiottu, nijundu og elleftu Stund, Matth. 20. v. 1. = 6. ſo þeir hofdu ei meire Tijma að ſtanda að Verkenu i hanns Vijngarde, enn þa ſeinuſtu Stund, það ſijdarſta Augnablik, ſamt þenudu þeir Hwſsfødurſins Vilia og Rađe a þeſsum ſijnum Tijma; Vera kann, að hefdu þeir fyrre vered leigder og kallader, mundu þeir fyrre hafa komed og meira erfidað. Guds trwu og forſiælu Þioonar ſkamta ſier ei ſiælfum Tijmann, þvi Madurenn hefur ſinn tilſettann Tijma, hanns Mænada Tala er hiá þier: Þu hefur ſett eitt Takmark, yfir það kemſt hann ecke, Job. 14. v. 5. Gude þocknaſt ecke alltijd að gefa þeim længann Tijma, ecke heldur að lengia þeirra Tijma, og leida þa yfirnætturlega yfir Tijmanns faſtſettu Takmork, ſo ſem Ezechiam Kong fordum Daga, Eſa. 38. v. 5. Guds Rađ i þeſſu er oſs Oranſakannlegt; Ordſoken er kannſkie Skulð hiá þeim ſem þyggia eiga, og hafa Nøt af Verkum og Þioonuſtu þeirra trwu og forſiælu Guds Þioona, ſo hier eiga heima þeſſe Poſtulanns Ord: Heimurenn var þeirra eige verdugur, Ebr. 11. v. 3. þvi ſijdur leinge verdugur,



ugur, þar i hønum finnast so fæer, sem hiaalpa þeim ad striida i Bænunum fyrer þeim til Guds, Rom. 15. v. 30. Kannskie þeir ei heldur þurfe leingre Tijma vid, þvi opt ætbijr Gud sijna trwu og forsiaalu Þioona med þeim Kroptum, Gaafum, Eigennlegleikum og Astande, ad einn kann ad framkvæma þad a hœlfum og einum Tijma, sem hinn kann ei i Verk ad koma a Dege, Are; Allre sinne Æfe. David endtest ei til ad byggia Guds Mustere, sem Salomon hanns Son let byggia a Sio Arum, 1. Kong. B. 6. v. 38. Einn hefur lijtenn Krapt, sem Engellenn i Philadelphia, enn fyrer hønum eru Dyrnar upplæatnar, Openb. 3. v. 8. stoorar og kroptugar, 1. Cor. 16. v. 9. so þeir gete a sijnum Tijma þenad Guds Raade. Allt þad hver og einn trwr og forsiaall Guds Þioon hefur a sijnum Tijma, hvert hann er læangur eda skamur, giørdt Gude til Dijrdar, hanns Rijke til Eblingar, hanns Christne til Uppbyggingar, sijnum Samchristnum og Naaunga til Gagns, Nota og Velferdar, þad blijfur i Blessan hiaa þeim Epterkomande, til Lofs, Dijrdar og Heidurs, þegar DRottenn JEsus Christus mun opennberast, 1. Pet. 1. v. 7.

Med þvi Guds trwu og forsiaalu Þioonar vita, ad þeirra Tijme stendur ei i þeirra Valde, þaa forsooma þeir ei Tijmann, heldur giora a hønum þau goodu Verken, til hverra Gud hefur ædur fyrerbwed þaa, Eph. 2. v. 16. A medann þeir hafa Tijmann, Gal. 6. v. 10. þenkia þeir ad þeirra Dagar eru fæer, 1. Mos. B. 47. v. 9. Ad þeir hafa einn Enda, Ps. 39. v. 5. Ad þeir eru vonder, toom Mæda og Erfide, Ps. 90. v. 10. sem þreyter og lyer, so þeir geta ei giørdt þad gooda sem þeir vilia, Rom. 7. v. 19. sier tiltrwad Guds Verk, edur af eigenn Kroptum þioonad a sijnum Tijma Guds Raade, þvi vier erum eige neyter nockud ad hugleida, so sem af oss sialfum til, heldur þad vier erum neyter, þaa er þad af Gude, 2. Cor. 3. v. 5. Þvi Giorningurenn er stoor, 1. Chron. 30. v. 1. Verked sem þeir skulu giora, er yfred miked, vigtugt og dijrmætt, vandasamt og margfaldt.

Verked er miked; Þad er ecke eins Manns Heimile, heldur Guds DRottenns 1. Chron. B. 30. v. 1. Hws, sem þad skal giorast i; Ecke einnar Stundar Verk, sem Menn so kalla; Þad skal ad sonnu giorast a einum, a sijnum Tijma, Mannsins Tijma sem Gud gefur hønum til þess, enn saa Tijme er ecke Augnablik, ecke Hverhandar Breidd, og so sem ecke pared, Ps. 39. v. 6. ad reikna, moote Verkenu sialfu, og þess Varannlegleika; Þvi þo þad sie giørdt i Tijmanum, a þessum stutta sijnum Tijma, þaa er þetta Raad edur Verk ei af Mønnum, so þad Onijtest edur verde ad eingu, heldur er þad af

Gude,

Gude, og kann ecke kesiast edur Onijtast, Post. G. 5. v. 38. 39. Po wthroops, ad og svared verde vid þann Lifande fra Eilijfd til Eilijfdar: Hiedann i fra skal eingen Tijd meir vera, Opennb. 10. v. 6. þa asnæmest ecke Verked med Tijmanum, þvi þier vited ad ydar Erfide er ei Onijtt i DRottne, 1. Cor. 15. v. 58. Erfidesmunerner, sem eru: Mædan, Preytan, Lwenn, Onæded og Ordualeikenn, sem Giorningenum fylgde, er og skal ecke meir vera; Enn sialfs Verksins Avoxtur, Verked sialft blijfur, 1. Cor. 3. v. 14. og skal vara eilijflega.

Verked er vigtugt og dijrmætt; Pad er ecke lijkamlegt Verk, vidvijkiande almennelegum natturlegum Hlutum, sem hafa sijna Dijrmæte af þvi þeir eru fagiæter, edur af Vijsdooms Hiarta edur Anda, 2. Mos. B. 28. v. 3. Skilninge og Hagleik i allrahanda Erfide, Cap. 31. v. 3. sem Menn giora, i Tillite til þeirra, er þeir ærgiætlega giordu Hluter skulu þena, edur til hvers þeir skulu brwkast, so sem eru einar og adrar Gersemar, i Gulle, Gimsteinum, Silfre, og kannske odrum rijngare Hlutum; Heldur er þetta Verk andlegt, sem Guds trwu og forsialu Pioonar skulu framkvæma, i allshættudum andlegum Hlutum, af Andanns Krapte og Samverkan, i allshættudum andlegum Vijsdoome og Skilninge, so þeir uppfræde sierhvern Mann med allshættadre Speke, uppa þad þeir framsetie hvern Mann algiordann i Christo JEsu, hvar uppa þeir erfida og strijda, epter Krapte þess sem i þeim kroptuglega verkar, Col. 1. v. 9. 28. 29.

Verked er Vandasamt, i Tillite til hanns sem Verked hefur æskiled, sem er sialfur Gud. Vande fylger Vegsemd hvørre; So er þad i þvi ad þioona stoorum Herrum, sem bæde eiga miked ad sier, þar til goodu og vondudu vaner, og þess vegna vander ad Virdingu sinne. Par er eingen meire Vegsemd til, enn ad heita og vera Guds þioon; Enn henne fylger sa Vande, ad Menn ei vanvirde Gud med Pioonustunne, þvi hann er so vandur ad Virdingu sinne, ad hann vill ecke sijna Dijrd odrum gefa, Es. 42. v. 8. Pess vegna kostgiæfa hanns trwu og forsialu Pioonar ad vera honum þocknanleger, 2. Cor. 5. v. 9. og þiena hanns Raade, giora hanns Vilia, Matth. 7. v. 21. og ganga honum verduglega til allrar Pocknunar, Col. 1. v. 10.

Vandasamt i Tillite til þess sem giorast skal. Pad skal vel vanda sem lenge a ad standa; Petta hugsa Menn, og þad giora og hafa þeir giordt og syndt i sijnum stooru og miklu Verkum, er þeir hafa af Stad komed; Lijka þeim Minnehættar, þeir Dag og Noott erfida, þeir hlioota ad hugsa ad þad fare rett, Syr. 35. v. 28. Hier er miklu ædra enn Manna Verk, hvers

 sy

ſu koſtuleg ſem þau kunna ad vera edur verda, þvi þetta er Verk DRottenns, 1. Cor. 15. v. 58. ſem ſtendur og ſtanda ſkal ævarande, meiga Menn þvi ecke kaſta til þeſs Augum edur Hondum, edur hriſta þad fram wr Erme ſinne, ſem Menn ſo kalla, ecke giora þad epter eigenn Vilia, Sierþootta edur Gedþeckne; Soddann Þioonuſtu og Verk vilia ecke Meunerner þyggia af odrum Monnum, ſijnum Lijkum. Rettſkickader Menn og Þenarar, ſem eitthvort Vanda-Verk a Hendur takaſt, biooda ſier ei ad fara ſo ad Raade edur Verke ſijnu. Sialfur Gud lijſer hier og a ſtærſta Misþocka, Matth. 15. v. 9. ſegiande: Ad Onijtu þioona þeir mier, a medann þeir kenna þær Kenningar, ſem ecke eru annad enn Bodord Manna. Guds Verk er ſo vandaſamt, ad eingenn getur giordt þad med Gaaleyſe edur Oadgiætne, þvi þad ſkal ſkie i DRottne, 1. Cor. 7. v. 9. ecke heldur med Svikum, þvi bolvadur vere ſa ſem giorer Verk Drottenns ſvikſamlega, Jer. 48. v. 10. Hier maa ei heldur i neckru ſkeika edur wt af bera; Moſis Dæme ſyner þad, þa hann ſkylde fullgiora Tialdbwdena, þa fær hann þeſſa Skipun af Gude: Sia til ad þu giorer alla Hlute epter þeirre Mind, ſem þier var ſynd a Fiallenu, 2. Moſ. B. 25. v. 4. Ebr. 8. v. 5. Jeremias lijka: Þu ſkalt ganga til alls þeſs ſem eg ſende þig, og allt þad ſem eg bijd þier, ſkaltu tala, Jer. 1. v. 7.

Vandaſamt i Tillite til þeirra ſem Verked ſkulu giora, þvi þad verdur eige giørdt rettelega, nema af heidvirdum, raadvondum og valennkunnum Monnum, ſem audſyna ſig vel vid allar Samvitſkur Manna fyrer Gude, 2. Cor. 4. v. 2. So ad hver ſem Verked ſkal giora, og tekſt þad a Hendur, hlijtur ad vera Oſtraffannlegur, ſo ſem Guds Tilſioonar Madur, Tit. 1. v. 7. David þienade a ſijnum Tijma Guds Raade: Hann var Madur epter Guds Hiarta, og atte ad giora allann Guds Vilia, Poſt. G. B. 13. v. 22. Sia þig um a medal alls Foolkſins epter valennkunnum Monnum, ſem Ottaſt Gud, eru ſannorder, og hata Aavrnd, ſagde Jethro vid Moſen, er hann lagde honum Raaded, hvernenn hann ſkylde koma Guds Verke af Stad, og þiena Guds Raade medal Iſraels Fyolks, 2. Moſ. B. 18. v. 21. Af þvi Paall Poſtule hafde ſo vandad Raad ſitt, ad hann hafde i allre goodre Samvitſku genged fyrer Gude, Poſt. G. 23. v. 1. og ydkad ſialfann ſig jafnann ad hafa ollumeigenn Oikerdta Samvitſku, bæde vid Gud og Menn, Cap. 24. v. 6. þvi ſette ſialfur JEſus hann (til ad þiena Guds og ſijnu Raade) til Þenara þeirra Hluta, ſem hann hafde ſied, og honum ſkyldu byrtaſt, Cap. 26. v. 16. og wtſende hann medal Heidingia, Cap. 9. v. 15.

Verk-

Verked er margfalldt: Þad er ei einasta eitt Verk, sem Menn wt-hluta hver odrum, so sem þa einum er tilsett ad plægia, odrum sa, einum planta, odrum vokva; Einn leggur Grundvollenn, annar tilhoggur Tred, einn Steinana, og ymser sierhvad annad þad vidþarf, og gaanga þo marger ad einu Verke, so sem þær 70. Þusunder er baaru Byrder, og 80. Þusund Tresmida sem hiuggu a Fiallenu, 3. Þusunder og 6. Hundrud, sem voru Verkstioorar yfir Salomonis Verke, þa hann byggde Hws Drottenns, 2. Chron. 2. v. 2. - 10. Oll Asia, edur Austur-Hælfunar Innbyggendur, erfidudu 200. Ar uppa Dianæ Mustere i Epheso. Guds Verke er ei so vared, Embættesins Margfiolde er hier opt lagdur a einn, so hann audsyne sig i ollum Hlutum Guds Þienara, 2. Cor. 6. v. 4. fullkomenn, algiordann, og til alls goods Verks hæfilegann (hendtugann) 2. Tim. 3. v. 17. so sem sa vijse og forstandiuge Madur, er Hiram Konnungurenn af Tyro sende Salomoni til ad erfida vid Musteris Byggingunna, hann kunne ad giora allt hvad Mann sette honum fyrer, 2. Chron. 2. v. 11. - 13. Sia þu ad eg set þig a þessum Dege yfir Þiooder og Konga-Rijke, so ad þu skallt uppslijta, i sundur brioota, i Eyde leggia, og fordiarfa, og uppbyggia, og groodursetia, seger DRottenn til Jeremiam, Cap. 1. v. 10. Hver og einn trwr og forsiaall Guds Þioon skal sialfur giora hvert og eitt Guds Verk, allt af ollu Guds Verke, hversu margfalldt, vandasamt, dijrmætt, vigtugt og miked sem þad vera kann, so hann þioone a sijnum Tijma Guds Vilia (Raade) so sem Postulenn med þessu sijnu andrijka Orda Tiltæke hier wtmaalar Davids Kongs Stioorn yfir Israels Foolke, i hverre hann giorde og framkvæmde allt þad Guds Verk, sem honum var a Hendur faled. Ecke eru aller Guds Þioonar Kongar, Fyrstar og Stoor-Herrar, heldur nockrer, hverium þad er gefed; Adrer hafa minna Umdæme, og eru Guds Þioonar ei ad sijdur. Hann sem medtook þad eina Pund, atte þar med ad þiena sijns Herra Vilia og Raade, sem hinn er medtook fim, Matth. 24. v. 15. Sa hinn minnste i Himnarijke, Cap. 11. v. 11. hann sem bæde hefur minnstar Gaafur, minnsta Umdæme, minnsta og lettasta Verk, er eins Guds Þioon, þoott hann hafe i litlu ad standa (sem Menn so kalla) eins og hinn, sem meira hefur. DRottenn a frialst ad setia einn yfir allt sitt Hws, til ad gefa ollum hanns Hiwnm Fædu: Annann yfir eitt einasta, til ad fæda þad; Hann þioonar þar Guds Vilia og Raade i þessu litla, so sem hinn i þvi mikla. Manngreinarmunur er ecke hia Gude, Post. G. 10. v. 34. hvert þad er edur ser i meira edur minna, skal hann þiena Guds Raade, og giora Guds Verk, epter þeirre Orku, sem Gud gefur, so ad i ollum Hlutum verde Gud dijrdkadur fyrer JEsum Christum, 1. Pet. 4. v. 12. Hann skal, so sem For-

stioorn-

ſkioornar Madur margvijſlegrar Guds Naadar, v. 11. Þioona margvijſlega, i margfølldu Erfide og Verke, epter margfalldre Guds Speke, Eph. 3. v. 10. Þvi aller trwer og forſiaaler Guds Þioonar eru Guds Sam-Erfides-Menn, 1. Cor. 3. v. 9.

1. Byggingar-Menn, Uppbyggendur, Pſ. 118. v. 22. 1. Pet. 2. v. 7. Eg heſt, wt af þeirre Guds Naad ſem mier er gefinn, Grundvollenn lagt, ſo ſem einn hyggenn Hwſa-Smidur, þvi ad eingenn fær annann Grundvoll lagt, heldur enn þañ ſem lagdur er, hvør ad er Chriſtus JEſus, ſeger Poſtulenn Paall, 1. Cor. 3. v. 10. 11. Þetta er Grundvollur Spaamannanna og Poſtulaña, þar JEſus Chriſtur ſiaalfur er ſaa ypparlegaſte Hyrningar Steiñenn, Eph. 2. v. 20. yfir og uppaa hann, ſkulu Guds trwu og forſiaalu Þioonar byggia Guds Uppbygginguu, Gull, Silfur, Gimſteina, 1. Cor. 3. v. 9. 12. ecke dauda, heldur lifande Steina, til andlegs Hwſs, 1. Pet. 2. v. 5. til Guds Jbwdar i Andanum, þvi aa honum er oll Byggingen ſamſett, ſem vex til heilags Muſteres i DROttne, Eph. 2. v. 21. 22. Morg Hws og Muſtere hafa Menn byggt Guds Dijrd, og hanns Helgedoome til Jbwdar, hvar hann hefur ſiaalfur ſett Minning ſijns Nafns, 2. Moſ. B. 20. v. 24. og þecknaſt ad opennbera ſig naalægann; So ſkipade hann Moſi ad tilbwa Tialdbwdena, og giora ſier einn Helgedoom, þvi hann ſagdeſt vilia bwa medal Iſraels Barna, Cap. 25. v. 8. David vilde uppbyggia DROttne eitt Muſtere i Jeruſalem, wt af hveriu hann ſyngur, Pſ. 132. v. 13. 14. ſegiande: DROttenn wtvalde Zion, og hefur Lyſting i þeim Stad ad bwa, þetta er mijn Hvijld æfinnlega, hier vil eg byggia, þvi þad þocknaſt mier vel. David tilreidde ad ſonnu einn Stad, handa Guds Ørk i ſijnum Stad, 1. Chron. 16. v. 1. Enn ecke audnadeſt honum ad byggia Muſtered, heldur Salomoni hanns Syne, ſo ſem David ſeger ſiaalfur: 1. Chron. 29. v. 3.-6. Gud liet ſegia mier: Ecke ſkalltu byggia mijnu Nafne Hws, þvi ad þu ert Bardaga Madur, og hefur wthellt Bloode, þinn Sonur Salomon ſkal mitt Hws byggia, 1. Chron. 18. v. 22. Til ſoddann lijkamlegrar Byggingar edur Verka, þocknaſt ecke Gude ad brwka ſijna trwu og forſiaalu Þioona framar, hann byr ecke i þeim Muſterum ſem med Hondum eru giord, ſagde Stephanus fordum, og lijka Paall Poſtule, er hann baud Chriſtne i Athenu Borg, Poſt. G. 7. v. 4. og 17. v. 25. Hvada Hwſe er þad þaa, er þier vilied mier uppbyggia? Eda hvar er ſaa Stadur, þar eg ſkule hvijlaſt? Seger DROttenn, Eſ. 66. v. 1. Þar til lætur hann ſiaalfur tilreida og uppbyggia eina Bygging, Hws ecke med Hondum giordt, 2. Cor. 5. v. 1. ædra enn Moſis Tialdbwd, ypparlegra og dijrmætara enn Salomonis Muſtere, ſem hverttveggia

er

er burtteked, afmaad og niðurbroteð; þvi hið gamla er umliðeð, siaeð aller Hluter eru nijer orðner, v. 17. sem ecke skulu framar af Alldre eður Elle hrorna, niðurbrotna eður niðurfalla, og eingen lijkamleg Tilfelle skulu veikia eður umturna, heldur skal þesse Guds Uppbygging vara, til þess hun verður stadfest æfennlega a Himnum, v. 1.

2. Akuryrkiu-Menn. Marger hafa þeir Akuryrkiu-Menn vereð, sem hafa eriað Jorðena, epter Guds Tilskickan, i lijkamlegann Maata, so sem Cain, er var Akuryrkiu-Maður, 1. Mos. B. 4. v. 2. Enn hanns Akurvinna var ecke Guds, heldur hanns siaalfs, þvi hann giorde Naatturunnar Verk, enn ei Naaðarennar. Usia Kongur i Juda hafðe Akur-Menn, þvi hann hafðe mikla Lyst a Akurvinnu, 2. Chron. 16. v. 10. Kongurenn er yfir ollu Landenu, til að erfiða Akurenn, seger Predikarenn, Cap. 5. v. 9. Það er Gud, sem og so hefur Þocknan a sijnum Akre, og allre hanns Yrkiu. Heimurenn er Akurenn, seger JEsus, Matth. 13. v. 38. Þier eruð Guds Akurvinna, seger Postulenn Paall vid Sofnudenn i Corintho, 1. Cor. 3. v. 9. Þesse Kornskera er mikel, þvi hefur HErra Kornskerunnar, siaalfum Gude, þocknast að senda sijna trwu og forsiaalu Þioona, sem eru Akuryrkiu-Menn, og hafa Monnum þioonad i fraa Barndoome sijnum, Sach. 13. v. 5. til ad plægia, eria, erfiða Akurenn, og saa Sædenn, Es. 28. v. 24. og kunngiora medal Manna þann Orannsakannlega Rijkdoom Christi, og upp ad byrta fyrer hverium Manne, hver þar sie Sameign Leyndardoomsins, sem af Veraldar Upphafe hefur i Gude hulenn vereð, Eph. 3. v. 8. 9. Þetta hlioota þeir ad giora i Sveita sijns Andlites, 1. Mos. B. 3. v. 19. J mikelle Þolennmæde, i Harmkvælum, i Þyngslum, i Erfiðe, i Vokum, i Fostum, i Hreinlijfe, i Vitsmunum, i Bidlundargede, i Hoogvære, i helgum Anda, i falslausum Kiærleika, i Sannleiksins Orde, i Guds Krapte, 2. Cor. 6. v. 4.-7.

3. Vijngards-Menn. DRottenn siaalfur plantade Alldengard i Eden, og sette Manneum Adam þar i, til ad yrkia hann, honum siaalfum til Yndes og Epterlætes, 1. Mos. B. 2. v. 8-15. Þegar Noe took ad yrkia Jorðena epter Flooðeð, plantade hann Vijngarda, med sierdeiles Erfiðe, Mæðu, Lwa og Þreytu, að hveriu honum varð, er hann vilde hressa sig aptur, 1. Mos. B. 9. v. 10.-21. Salomon hefur einn Vijngard i Baalhamon, hann gaf Varðhaldsmonnum Vijngarðenn, að hver af þeim skylde færa honum fyrer hanns Avoxtu Þusund Silfurpeninga, Lofkv. 8. v. 11. Hier er meire enn Salomon, þvi hier er DRottenn Allsheriar, hann hefur einn Vijngard hier a Jorðunne, sem er

hanns Christne og Sofnudur; Þar fyrer er Himnarijke lijkt einum Hwsfodur, sem wtgeck snemma Morguns, Verkamenn ad leigia i sinn Vijngard, Matth. 20. v. 1. Þvi hann var fyrer honum, Lofkv. 8. v. 12. Þenna hefur hann senged i Hendur Vijngards Mönnum, sijnum trwu og forsiaalu Þioonum, ad þeir gialde honum Avoxt i rettañ Tijma, Matth. 21. v. 41. og erfide þar inne, sumer allann Dagenn, sumer ecke nema eina Stund, stundum med Glede, Ynde og Epterlæte, so þeir giora Verked viliuger, stundum med Andvarpan, i hverre þeir meiga allann Dagenn erfida, og bera hanns Hita og Þwnga, med Mædu, Lwa og Þreytu, og giora Erfided og Verked so sem nauduger, af þvi þeim er þad Embætte aa Hendur faled, 1. Cor. 9. v. 17. Ebr. 13. v. 17. So þegar þeir hugsa þeir erfide forgefens, og fyrerkome sijnum Styrkleika fyrer ecke, og til Onijtes, so sem Esaias, þaa hugga þeir sig þar vid, ad þeirra Maalesne er DRottenns, og þeirra Embætte þeirra Guds, Es. 49. v. 4.

4. Hyrdarar. Menn og Kvinnur voru Hyrdarar i gamla Testamentenu: Abel var Sauda Hyrder, 1. Mos. B. 4. v. 2. Jabal var Forfader Fiaarhyrdaranna, v. 20. Rachel giætte Sauda Fodur sijns Labans, Cap. 29. v. 9. Joseph sagde Pharaoni Konge i Egyptalande um Fodur sinn og Brædur sijna, ad þeir væru Fiaarhyrdarar, hvern Sannleika þeir siaalfer og so medkenndu, epter Josephs Bode, fyrer Kongenum, segiande: Þijner Þenarar eru Fiaarhyrdarar, bæde vier og vorer Forfedur; Hvar fyrer Pharao seger so til Josephs: Ef þu veitst nockra Dugnadar Menn vera medal þeirra, þaa set þaa yfir mijnar Hiarder, Cap. 47. v. 3.-6. Guds trwu og forsiaalu Þioonar lijkiast i H. Ritningu vid þessa, og kallast Hyrdarar. DRottenn, sem er Fader Andanna alls Hollds, hann vilie setia einn Mann yfir þennann Almwga, þann sem kann ad gaanga wt og inn fyrer þeim, og leida þaa wt og inn, so Drottenns Sofnudur sie ecke lijka sem Sauder, þeir ed eingann Hyrder hafa, 4. Mos. B. 27. v. 16. 17. Eg vil setia Hyrdara yfir þaa, seger DRottenn, Jer. 23. v. 4. Hann siaalfur er hinn ædste Hyrder yfir sinne Hiord, yfir sijnum Trwudum. DRottenn er minn Hyrder, seger David, Ps. 23. v. 1. Eg em goodur Hyrder, seger siaalfur JEsus, Joh. 10. v. 1. Þar fyrer nefner og kallar Postulenn Paall, JEsum, þann mikla Hyrder Saudanna, Ebr. 13. v. 20. og Petur, þann ædsta Hyrder, 1. Pet. 5. v. 4. Margt er þad, sem einn Hyrder hefur ad annast i lijkamlegann Maata, so og lijka þeir, hverium DRottenn hefur boded um sijna Hiord, Saaler Mannanna; So þad heiter til hvers eins Guds Þioons, um hveria og eina Saal, sem einn af Spaamonnunum sagde vid Achab Israelis Kong: 1. Kong. B. 20. v. 39.-42. Geym þu þenna Mann, þijn Saal

skal

skal vera i Stadenn hanns Sœlar. Hyrdararner hlioota ad vakta Hiord sijna, ad eckert af henne tapest, ad Þieofar og Rœningiar eingu stele nie rœne, ad Vargar og Villudijr eckert deyde edur sundurrijse, ad eingenn skadlegur Siwkdoomur hafe Yfirrœd yfir Hiordenne, ad Hiorden hafe Foodur og noog Vatn, hverttveggia sier hendtugt; Allt þetta heimter DRottenn af sijnum trwu og forsiœlu Þioonum, þvi seger sialfur JEsus til Peturs: Fæd þu Lomb mijn; J annad Sinn: Fæd þu Saude mijna; J þridia Sinn: Al þu Saude mijna, Joh. 21. v. 15. - 17. Þegar Postulenn Pœll kvedur Sofnudenn, og þœ eldsiu i Epheso, tekur hann so til Orda: Hafed Gaat œ Hiordenne, þvi þad veit eg, ad epter minn Afgœng munu inngœnga medal ydar Olmer Vargar, þeir ed ei munu þyrma Hiordenne Post. G. 20. v. 28. 29. Sialfur Gud gefur nœkvœmlega Giætur ad ollu þessu; David hroosar þvi, i sijnum 23. Psalme, v. 1. 2. med þessum Ordum: Mig mun ecke neitt bresta, hann foodrar mig i grœnum Haga, og leider mig fram ad ferskum Votnum; Og eitt sierdeiles mijskunarrijkt Fyrerheit gefur DRottenn um þad, hann vilie ætijd so giora, fyrer Ezechielem, Cap. 34. v. 15. 16. þar hann seger og lofar: Eg vil sialfur ala mijna Saude, og eg vil bæla þœ, seger DRottenn DRottenn, eg vil uppleita þad glatada, og leida þad aptur sem villtest, og græda þad lemstrada, og giæta ad þvi vanfæra, og geyma ad þvi sem feitt og vel fært er, og eg vil hafa Umhugsan fijrer þeim, so sem rett er. Hver og einn trwr og forsiall Guds Þioon, sem gengur epter þessare Reglu, og med soddann moote giorer Verked, hann fær þenna Lofstijr, sem Guds Ande gefur David af Asaph: Psalm. 78. v. 72. Hann fædde þœ einnenn med allre Trygd, og stijrde þeim med Kostgiæfne.

5. Læknarar. Eru þœ eingenn Smyrsl i Gilead? Eda er þar eingenn Grædare til? Seger Jeremias Spœmadur, Cap. 8. v. 9. Þar til mœ svara Jobs Ordum til Zophar af Naema: Þeir eru aller Onijter Læknarar, Job. 13. v. 4. Gilead er afmœd, Smyrslen ad eingu orden, Læknararner dauder; Þo lifer Gud enn, og er hinn same, sem hefur skapad og skapar Læknerenn, Syr. 38. v. 2. Þar eru margvijslegar Giafer, enn þar er einn Ande. J sierhverium einum audsyna sig Giafer Andanns, til almennelegrar Nytsemdar: Hiœ einum Giafer Lækninganna. Allt þetta verkar einn og hinn same Ande, skiptande sierhverium epter þvi sem hann vill, 1. Cor. 12. v. 4. - 11. So wtbyr Gud sijna trwu og forsiœlu Þioona. (Lucas sœ Lækner, Col. 4. v. 14. mætte hier uppœ vera Dæme til Upplysingar). Þo aller hafe ei Giafer Lækninganna i lijkamlegann Mœta, sem hann, þœ samt eiga þeir aller ad þioona Guds Rœde, i þvi ad hella Vijne og Vidsmiore i Sœr hinns Rasada, Luc. 10,

10. v. 34. til ad lækna þaa Siwku, og græda þaa Særdu, Ezech. 34. v. 4. Enn hverke lækna oss Jurter eda Plaastrar, heldur þitt Ord, DRottenn, Spek. B. 16. v. 12. Þad lætur hann sijna trwu og forsiaalu Þioona frambera, ad þad verde þeim sem þvi trwa, Kraptur Guds til Saaluhiaalpar, Rom. 1. v. 16. og Ylmur Lijfsins til Lijfsins, 2. Cor. 2. v. 18. Hier med er DRottenn samverkande, og sialfur saa sem bindur um Saaren sijns Foolks, og læknar þeirra Akomur, Es. 30. v. 26.

6. Vaktarar. Saa hver ed vardveiter Israel, hann sefur ecke, og ei syfiar hann, Ps. 121. v. 4. Svefnenn hefur hann gefed Skepnunum til Endurnæringar, og under eins tilskickad, ad aa medal þeirra vaka nockrar, þaa adrar sofa og hafa Naader. Fuglarner, Dijren, og lijka vel Fiskarner, sem vid þeckium, syna oss þenna DRottenns vakande Staf, Jer. 1. v. 11. i Naatturunne allstadar. Mennerner hafa so fraa Alldodle tilsett, sijdann þeir tooku ad fiolga, 1. Mos. B. 6. v. 1. og verda marger aa Jordunne, sierdeiles i sijnum Borgum og Samfelags Stodum, ad þar skule vera Vaktarar, sem stande aa sijnu Vardhalde, Hab. 2. v. 1. Tilsioonar Menn, sem adgiæte og tilsege, Es. 21. v. 6. J krijngum Salomonis Sæng, standa Sextyger af þeim Sterku i Israel, þeir hafa aller Sverd, og eru skickader til Bardaga, hver hefur sitt Sverd aa sinne Sijdu, sokum Nætur Ottanns, Lofkv. 3. v. 7. 8. Þesser eru Guds trwu og forsiaalu Þioonar, sem erfida uppaa hanns Giorninga, hallda Vord um Nætur, og erfida um Daga, so sem Foolked under Nehemia, i hinne sijdare Jerusalems Byggingu, Nehem. 4. v. 22. 23. DRottenn hefur og þessu lofad og heited sinne Christne, þar hann seger: O Jerusalem! Eg mun Vokumenn tilskipa uppaa þijna Mwrvegge, þeir ed alla Daga og allar Nætur skulu alldrei hliooder vera, og þeir ed skulu minnast DRottenns, Es. 62. v. 6. Enn þar er einn hærre Voktare, Pred. 5. v. 8. Mannanna Vardveitare, Job. 7. v. 20. DRottenn Gud Allsheriar. Ef DRottenn vardveiter ecke Borgena, þaa vaker Vokumadurenn til forgefins, Ps. 127. v. 1.

7. Foostur-Fedur. Menn telia sier þad Æru og Epterlæte, ad taka sier meire Manna Born aa Hendur, til Foosturs og Uppfædslu, kannskie lijka Menta ef gieta, og flester sem þad giora, taka Astfoostre vid Bornen, þad er: Elska þa af Hiarta, sem þeir uppala. Þeir hiner Yppurstu i Stadnum Jesreel, foostrudu upp Achabs Sonu, 2. Kong. B. 10. v. 6. Þar er eingen meire Æra enn sw, ad heita Guds Þienare, og giora þetta Guds Verk, ad foostra, og so sem uppala Born Guds Brwdur Christnennar. Þad var sier-

legt

legt Guds Fyrerheit til þeirra i gamla Testamentenu, sem nu daglega framkem ur i þvi nija: Kongarner skulu vera þijner Foostur-Fedur, og Drottningarnar þijnar Foostur-Mædur, Es. 49. v. 23. Þar med syner Drottenn, ad hann er mikell Gud, og mattugur Kongur yfir alla Gude, Ps. 95. v. 3. so Konganna Hiortu eru i Hende DRottenns, so sem Vatns-Lækerner, og hann hneger þau hvort ed hann vill, Ordskv. 21. v. 1. Under goodra og gudhræddra Konga Stioornan, hefur Gude þocknast ad auka mest sijna Christne, og utbreida hana enn i Dag; Þeir utvelia i sier, af honum (af Guds Raad) i Hendur feingnu og tiltrwudu Umbode og Umdæme, trwa og forsiaala Þioona, og setia þa yfir hanns Hiw, til ad gefa þeim i rettann Tijma þad þeim ber, Luc. 12. v. 42. Margur mælest og telst undann þessare Æru sem Moses, og seger: Þu leggur uppa mig Byrde alls þessa Foolks; Hefi eg fædt þad, so þu neger segia til mijn: Ber þu þa i þijnum Fadme, lijka sem ein Foostra ber sitt Barn? 4. Mos. 11. v. 11. 12. Og Jeremias: O DRottenn! DRottenn! Eg duge ecke, eg er ofwngur, Jer. 1. v. 6. Guds Log og Rettur segia þeim þetta Forveriara Verk a Hendur, til hvors þeir eru rett kvadder, Log og Lijdskylder. Paall Postule seger sig ecke ur þessum Logum, hann gaf sig þar strax til, og radgadest ecke vid Hold og Blood þar um, Gal. 1. v. 16. heldur giordest Trwnne hlijdugur, Post. G. 6. v. 7. Þad medkenner hann sialfur, segiande: Eg var ecke (Agrippa Kongur) himneskre Openberan Ohlijdugur, Cap. 26. v. 19. þvi tookst hann þetta Guds Barna Umbod a Hendur, hvoriu hann lysir, 1. Cor. 4. v. 15. segiande: J Christo JEsu fyrer Evangelium hefe eg aled ydur; Og aptur, Gal. 4. v. 19. Mijn kiæru Barnakorn, þau eg enn nu aptur i annad Sinn med Angist fæde. Þetta er þa og verdur þeirra Hroosan, sem er Vitnan þeirra Samvitsku, 2. Cor. 1. v. 12. Vier vorum Moodurleger hia ydur, lijka sem onnur Foostra annast sijn Born, so hofum vier Hiartans Lysting af ydur, og vorum viliuger ad Hlutskipta vid ydur, ei alleinasta Guds Evangelinm, heldur jafnvel voru Lijfe, fyrer þvi ad vier hofdum ydur Astfoolgna, 1. Thess. 2. v. 7. 8.

J og med þessum Verkum, skulu Guds trwu og forsialu Þioonar, a sijnum Tijma þiena hanns Raade, sem David; Guds Raad er i og hia honum sialfum, eitt og hid sama sem hanns Vilie; Fyrer oss Monnunum er Guds Vilie þad honum þocknast ad laata skie og verda, medal vor hier a Jordunne; Enn Raad er Maatenn edur Adferden, hvar med Gude þocknast ad framkvæma þennann sinn Vilia, þvi Raad, er vijsdoomsfullur Asetningur, ad koma sijnum Vilia i Verk af goodum Tilgange. Guds goodur Tilgangur hia oss Monnunum, er sa: Ad hanns Nafn helgest og dijrdkest medal vor,



Guds Nafn er Guds Ord, þad helgast og dijrdkast, þegar þad kennest rett, hreint og klaart, og vier lifum þar epter vel og erum gooder, so oss vegnar og geingur vel; Þegar vier elskum Gud yfir alla Hlute fram, og vorn Naunga sem oss sialfa, þa erum vier gooder; Þegar Gud audsyner oss sig so nadugann, myskunsamann og giædskurijkann, ad vier ødlunst af hønum andlega og lijkamlega Velgiørninga, tijmannlega og eilijfa, þa vegnar og geingur oss vel; Allt hvad hier ad lijtur, þad er allt Guds Raad, so sem: Þad dadsamlega Skøpunar Verk allra Hluta, af og med soddann Raade giørdt, ad vier Mennerner meigum i og af þvi, siaa og þeckia Guds Almætte, Alvitsku og Giædsku; Su undrunarverda Forsioon fyrer, og Vidhald aa ollum skøpudum Hlutum, hvar i DRottenn auglijsir sig mikenn af Raade, og mattugann af Giørninge, Jer. 32. v. 19. Allt Verk vorrar Endurlausnar; Allt Verk vorrar Helgunar; Allt Guds Ord, Evangelium, þad eilijfa Evangelium, Opennb. 14. v. 6. Þad stadfasta og Obifannlega Raad Testamentesins, hvar med Gud yfirgnæfanlega audsyner Erfingium Fyrerheitesins, ad sitt Raad er ei Ostødugt, Ebr. 6. v. 17. Allt Guds Logmaal, þad dijrmætasta Raadaneyte, Ps. 119. v. 24. allra vorra Þanka, Orda og Verka. Øll þessu Guds Raade, skulu trwer og forsialer Guds Þioonar, þiena aa sijnum Tijma; Ecke so sem Guds Raadgiafar, þvi hvør hefur þad vered? Rom. 11. v. 34. Heldur so sem Guds Raads Þioonar, retter Þienarar Evangelii, Eph. 3. v. 7. Col. 1. v. 23. giørande Verk gudspiallegs Predikara, 2. Tim. 4. v. 5. so sem trwum og forsialum Guds Þioonum ber og hæfir.

II. Ecke eru þesse Verk ævarande edur eilijf, þvi hvørsu mikel, vigtug og dijrmæt, vandasom og margføld, sem þau eru fyrer Gude og Mønum, þa skulu þau giørast i Tijmanum. Tijmenn er, hann fer, hann kemur, aller Giørningar hafa sinn Tijma, Pred. 3. v. 17. So sem þar er Tijme til ad giora Verked aa, so er þar og Tijme til ad leggia Verked af. Þegar sa Tijme er wte og aa Enda, aa hvørium hvør einn skal þiena Guds Raade, þa kemur sa Tijme, aa hvørium Aaron skal færast af Klædunum og deya, 4. Mos. B. 20. v. 26. Þegar Kvølld var komed, sagde Herrañ Vijngardsens til sijns Raadsmañs: Kalla þu Verkmennena, Matth. 20. v. 8. Þetta er Guds Raad og Vilie, ad eingenn skule ofþreytast, edur nockrum ofbiodast i hanns Þioonustu; Hann vill ei sialfur giora, edur laata giora hana ad Prældoonie. Levitarner attu ei ad þioona lengur i Samkundu Tialdbwdenne, enn til 50. Ara, þadann af attu þeir ad vera frialsir fraa sijns Embættes Þioonustu, og skyldu ecke framar þioona, 4. Mos. B. 8. v. 25. Fiør Manna tekur þa opt ad mijnka, Kraptarner

ad

ad lijast, Nœtturenn veikiast; Aller Guds Pioonar eru ei sem Moses, hon-
um glaptest ei Syn, og ei Þverrade hanns Kraptur, 5. Mos. B. 34. v. 7. Alld-
urenn veiker allt þetta a ollum nœtturlega, vier hliootum aller ad deya, Syr.
8. v. 8. Endenn er þa, þegar Herrann sialfur kemur. Þa Dagurenn var
ordenn svalur, kallade Gud a Adam i Eden fordum, 1. Mos. 3. v. 8. Þegar
Dagur Lijfsins tekur ad koolna og lijda ad Kvollde, kallar DRottenn sijna trwu
og forsiallu Pioona, ad gialda þeim Verdkauped, Laun þeirra Verka;
Guds Ande lyser þvi wtþryckelega hier i Textanum, segiande: David, þa
hann hafde a sijnum Tijma þienad Guds Raade, sofnade hann. Hver
eru þa mijn Laun, seger Paall, 1. Cor. 9. v. 18. þegar hann er hroosa sier af
þvi, hann hafi ecke ofþyngt neinum Sofnudum, edur teked Laun af þeim, þar
hann visse þo af Guds Bode, 5. Mos. B. 18. ad Prestarner skulu hafa sinn
Part af Foornunum; Þvi seger hann: Þeir sem Altarenu þioona, hafa Not
af Altarenu, lijka so hefur DRottenn tilskickad, ad þeir sem Evangelium kunn-
giora, skule af Evangelio Næring hafa, 1. Cor. 9. v. 13. 14. Hann giorde
ei so, þvi hann leit a onnur Laun, og visse ad þesse Guds Laun, eru ecke ein-
asta lijkamleg. Petur Postule syneſt heldur ad hafa vered i þessu holdlega
Sinnadur, þa hann sagde vid JEsum: Sia, vier forlietum allt, og fylgdum
þier epter; Hvad skulum vier hafa i Stadenn? Matth. 19. v. 27. Verdur
er Verkamadurenn sinna Launa, sagde JEsus vid sijna Lœresveina, Cap. 10.
v. 10. Epter Laununum vilde Gud ecke heldur lœta Verkamennena bijda, þvi
þad heiter wtþryckelega: Lœttu ecke Daglauna Mannsins Verdkaup, vera
hia þier allt til Morguns, 3. Mos. B. 19. v. 13. Þu skalt ecke halda inne
hanns Launum hia þier, sem er Naudþurftugur og Fœtœkur, heldur skaltu gial-
da honum sitt Verdkaup a Degenum, fyrr enn Soolen gengur under, þvi ad
hann er Fœtœkur, 5. Mos. B. 24. v. 14. 15. Og so rijkt geck DRottenn
epter þessu, ad hann seger: Cap. 25. v. 4. Þu skalt ecke Mwlbynda þad
Nauted sem Korned þresker. Þad er vijst ad Gud ber Umhyggiu fyrer ollu
þvi hann hefur skapad, þvi hann hialpar hvorutveggiu, bæde Monnum og Fie-
nade, Ps. 36. v. 7. og ber alla Hlute med sijnu kroptuga Orde, Ebr. 1. v. 2.
Þo gaf Gud ei þetta Logmal Skepnanna vegna einasta, so sem Postulenn seg-
er, 1. Cor. 9. v. 9. 10. Hvort ber Gud Ahyggiu fyrer Nautunum? Eda
seger hann ecke þetta i alla Stade vorra vegna? Þviad fyrer vorar Saker er
þetta ritad, af þvi ad hann sem plæger, skal plægia i Vonenne, og sa sem þresk-
er, hann skal þreskia i Vonenne, so ad hann verde Hluttakare sinnar Vonar, so
skulu og Guds trwu og forsiallu Pioonar erfida i Vonenne, og þiena Guds
Raade og Vilia, ad þeir fae Laun. Hinn mikle Hwssfader, DRottenn

Alls-

Allsheriar, sem þetta Logmaal hefur gefed, skorar sig ecke hier undann, þvi þad er rett hiaa Gude ad endurgialda, 2. Thess. 1. v. 6. þar hver og einn mun sitt Verdkaup odlast epter sijnu Erfide, 1. Cor. 3. v. 8. DRottenn um̄bune þier þinn Giorning, og þijn Laun skulu vera fullkomen hiaa DRottne Jsraelis Gude, til hvers þu ert nu komenn, sagde Boas vid Ruth, Cap. 2. v. 12. So sem Madurenn talade, so skede þad lijka. Ottast þu ecke Abraham, eg er þin̄ Skiolldur, og þijn miog stoor Laun, sagde DRottenn vid Abraham; Enn Abraham svarar: Hvad villtu gefa mier? Eg fer hiedann, 1. Mos. B. 15. v. 1. 2. So synast þeir trwu og forstiaulu Guds Þioonar meiga segia: Ad allt þad DRottenn gefi þeim, sie þetta: Ad fara hiedann. David, þa hann hafde aa sijnum Tijma þienad Guds Raade, sofnade hann. Hvad er ad fara hiedann, utann ad deya, og so sem Guds Aude hier nefner, ad sofna? Er þa Daudenn ordenn Laun fyrer þeirra trwa Þioonustu, 2. Cor. 9. v. 13. hvoru Postulenn Paall, kallar Vardlaun Syndarennar? Rom. 6. v. 23. O nei! Ecke ad þvi leite, sem hann var, þa hann fyrst þreyngde sier inn til allra Manna, Straff Syndarennar, þvi aller hafa syndgad, Rom. 5. v. 12. helldur ad þvi leite, sem hann nu er ordenn þeim trwu og forstiaulu Guds Þioonum, sem aa sijnum Tijma hafa þienad Guds Raade, nefnelega: Einn Ebenezer, ecke soo sem Samuel uppreiste millum Mispa og Zen, 1. Sam. 7. v. 12. til Endurminningar DRottenns Hiaalpar, Jsraels Bornum veittrar fraa Philistæunum; Helldur er Daudenn ordenn ein Hiaalpar Stund millum Tijmanns og Eilijfdarennar, aa hvorre DRottenn leyser og frelsar sijna trwu og forstiaulu Þioona, fraa ollu þvi Jlla, er þeir hafa vered underokader af, medann þeir baaru Lijkama þessa Dauda under Syndena seldann, Rom. 7. v. 14. - 24. so hier sannast aa Ord Esdræ, þar hann seger: Vor Gud upplyste vor Augu, og gaf oss Lijfgun þar sem vier þioonudum, þvi vier erum Þienarar, og vor Gud yfirgaf oss ecke, þo vier sieum Þienarar, og hann hefur snwed Myskunseme til vor, Esdr. 9. v. 8. 9. Sinne Myskunseme snijr Gud, og hana veiter og syner hann, sijnum trwu og forstiaulu Þioonum, helldst i Daudanum, þa odlast þeir Myskunseme og finna Naad, þvi þad er soo Tijme, aa hvorium þeir þurfa Hulltinges vid, Ebr. 5. v. 3. Þegar DRottne þocknast ad kalla þa, sem Abraham fraa Ur i Caldæa, Andstreyme og Hormungum þessa Lijfs, og skipar þeim yfir þessa Jordan, Daudann, fraa Egyptalande sem Jsrael, þessu Þrældooms Hwse, 5. Mos. 7. v. 8. fraa þeirra þwnga Erfide og aanaudar Oke, Es. 10. v. 27. yfir um̄ Hafid rauda til Eydemerkur, i Daudann og Grofena um̄ Stundarsaker, þaangad til þeir fae ad gaanga inn i þad fyrerheitna Canaan, Foðurlandeð, til Fagnadar sijns Herra; Þvi Gud hefur eitthvad betra aadur

til

til forna um̃ oss fyrerhugad, Ebr. 11. v. 40. fyrer þvi er þar enn Hvijld fyrer Þiondum Foolke Guds, Cap. 4. v. 9. Hun byriast i Daudanum, þa DRottenn frelsar sijna trwu og forsiaalu Þioona, fullkomlega fraa ollu Illu, og hiaalpar þeim til sijns himneska Dijrdar-Rijkes, so sem Postulanum Paale, 2. Tim. 4. v. 18. og kallar þa til sinnar Hvijldar, Ps. 95. v. 11.

David, þaa hann hafde aa sijnum Tijma þienad Guds Vilia (Raade) sofnade hann. Daude hinna Rettlaatu er reiknadur og aalitenn fyrer DRottne i H. Ritningu, so sem Svefn: Lazarus Vinur vor sefur, sagde JEsus til sinna Læresveina, um̃ Dauda hanns, Joh. 11. v. 11. Stwlkan er ei daud, heldur sefur hun, sagde hann um̃ Hofdingianns Doottur, Matth. 9. v. 24. Þeir morgu, sem under Jordunne liggia, kallar Daniel, sofe, Cap. 12. v. 12. Þeir sem svaafu, risu upp i JEsu Dauda, seger Matthæus, Cap. 27. v. 52. Um̃ Stephanum seger Lucas: Post. G. 7. v. 60. Sem hann hafde þetta sagdt, sofnade hann. Vier vilium ei dylia fyrer ydur, kiærer Brædur, af þeim sem sofa, uppaa þad þier sieud ei hryggver, so sem þeir adrer, er einga Von hafa, 1. Thess. 4. v. 13. Ad Daude þeirra Trwudu lijkest edur jafnast vid, og er kalladur Svefn, skedur ad nockru leite þess vegna, ad þeir hvijlast i honum, og endurnærast vid hann, af þeim Þrautum og Þiaaningum, sem þeir eru hier i Lijfe underorpner. J Daudanum þookte Job sem so munde fara og verda fyrer honum, þvi seger hann: Þaa læge eg nu og være kyrr, svæfe og hefde Hvijld, þar hvijla sig þeir ed haft hafa miked Erfide. J Daudanum finna Menn ei til nockra Meina framar, þeir fiaa ei Armædunna leingur, Fangarner hafa þar Frid hver vid annann, og heyra ecke Kvalaranns Hliood, Job. 3. v. 13. 14. 18. Ad nockru leite kallast Daudenn Svefn, i Tillite til epterkomande Holdsins Endurlijfgunar og Upprisu Lijfsins til eilijfs Lijfs. Þad er almennur Hattur medal Manna, ad vekia þaa af sijnum Svefne sem sofa, og ecke vakna sialfer, þegar Dagurenn upprennur, og þar er Tijme til ad upprijsa wr Legurwmunum. Þeir sem noted hafa Svefns, Værdar og Hvijldar, finna þad þegar þeir vakna, ad þeirra Lijkamer eru endurnærder, Limerner ordner mykre og lidugre, Lijfs Kraptarner hressare og styrkvare, heldur enn þaa þeir logdust nidur; So verdur aa sijdann, þegar sw Stund kemur, ad þeir trwu og forsiaalu Guds Þioonar, sem aa sijnum Tijma hafa þienad Guds Raade, og i Grofunum liggia, heyra Raust Mannsins Sonar, sem þaa uppvekur af þessum þeirra Svefne, Værdum og Hvijld, sem þeir hafa haft i Grofenne: Þaa munu þeir framganga, Joh. 5. v. 28. 29. i Oforgengelegum Lijkama og Lijfe, ecke einasta til ad niota Uppruna og Byrtu hinns sijdarsta Dags, sem allar þeirra goodar Hug-

 renn-

renningar, Ord og Verk, allt hvad hiaa þeim hefur fundest sannarlegt, rettvijst, loflegt, Phil. 4. v. 8. alla þeirra dygga og trygga Þioonustu opennberlega framleider til Lioosßens, so ad siaaest þeirra Goodverk, Matth. 5. v. 16. Þvi hver Sannleikann giorer, hann kemur til Lioosßens, so hanns Giorder verde auglioosar, þvi þær eru i Gude giordar, Joh. 3. v. 21. heldur til ad medtaka Laun, sem ad er: Heidur, Vegsemd og Ofallvallta Veru, Rom. 2. v. 7. Heidur i þvi, ad setiast aa einn ædra Beck, enn þeir hier saatu, nefnelega: Til hægre Hlidar, ecke Monnum, heldur Mannsins Syne, sem er Gud yfir ollum Hlutum, blessadur ad Eilijfu, Amen, Rom. 9. v. 5. Til hverrar Tignar þeir verda kvadder, med þessum Naadarennar Velkomanda i Dijrdena, af Lijfsins Hertoga: Komed hier, þier blessader mijns Fodurs, og eignest þad Rijke, sem ydur er fyrerbwed fraa Upphafe Veralldar, Matth. 25. v. 34. I hveriu þeir faa ad siaa Liooma Guds Dijrdar, Ebr. 1. v. 3. og skoda Gud Auglite til Auglites, 1. Cor. 13. v. 12. Ecke um̃ Stundarsaker, so sem hier i Heime skedur, þaa Menn niooта þeirrar Æru og Naadar, sem Heimurenn so kallar, ad faa Audience, Aheyrn, af og hiaa stoorum Herrum og Magtar-Monnum aa Jordunne, Kongum og Fyrstum, og lijta þeirra Personu i Svip, um̃ Augnablik, heldur munu þeir med DRottne vera alla Tijma, 1. Thess. 4. v. 17. **Vid Tignar Dag þaa tøkum fyrst.** 2c.

Trwer og forsiaaler Guds Þioonar, þvi meire Dygd, Trygd og Forsiaalne, sem þeir syna og auglysa, i þvi, ad þiena aa sijnum Tijma Guds Raade, i sier tiltrwudu og aakvordudu Verke, þvi aarvakrare, þvi kostglæfnare, þvi aastundunarsamare sem þeir eru, þvi minna sofa þeir: Þar er eingenn þreyttur aa medal þeirra, eingann þeirra syfiar, og eingann þeirra sæker Svefn, Es. 5. v. 27. So geck þad David, þvi seger hann: Eg vil ei i Tialdbwd mijns Heimiles gaanga, ei heldur mig uppleggia i mijna Sængur Hvijlu, mijn Augu vil eg ei laata sofa, og ecke heldur mijna Augna-Hvarma dotta laata, allt þaangad til eg finn fyrer DRottne einn Stad, til Byggingar þeim megtuga Jacobs, Ps. 132. v. 3.-5. Guds Hiw, sem þeir eru setter yfir, leyfa þeim ei ad vera latum, liggia edur sofa giarnann, Es. 56. v. 10. Þeirra Þorf wtheimter, ad þeir hafe Gaat aa Hiordenne, medal hverra heilagur Ande sette þaa til Biskupa, ad fæda Sofnud Guds, hvern hann hefur wtvegad med sijnu eigenn Bloode, Post. G. 20. v. 28. Þeir verda þvi ad vera sem Jacob Forfader seger um̃ siaalfann sig vid Laban: Eg vanmegnadest um̃ Daga af Hita, og um̃ Nætur af Kulda, og þar kom eingenn Svefn aa mijn Augu, 1. Mos. B. 31. v. 40. Hvad yndeslegur hefur Jacob þaa vered Svefnenn? Hvad þægeleg Hvijlden,

epter



epter so margfaldt Onæde, Hita og Kulda, Mædu og Erfide, Lwa og Breytu? Dagleg Reynsla syner þesse Predikaranns Ord sonn: Sa sem erfidar, honum er Svefnenn sætur, Cap. 5. v. 12. Hvad sætur verdur þa Daudenn þeim trwu og forsialu Guds Pioonum, sem hafa a sijnum Tijma so pioonad Guds Raade, ad þeir hafa barest goodre Barattu, 1. Tim. 6. v. 12. Strijded wtstaded yfir þeirre heilogu Trw, sem Heilogum er eitt Sinn gefen, Jud. v. 3. Hverra Hold hafde einga Roo, heldur lidu i ollu Hrygd, hid ytra Barattu, hid innra Otta, 2. Cor. 7. v. 5. sem hafa lided og haft Þolennmæde, og erfidad fyrer Guds Nafns Saker, og ecke þreytst, sem Engellenn Samkundunnar i Epheso, og þannenn syndt sijn Verk, sinn Kiærleika, sijna Pioonustu og Trw, sijna Þolennmæde, og hin sijdare Verken hinum fyrre meire, sem Engellenn i Thyatira, Openb. 2. v. 3.-19. Sialfur Gud þeirra Herra, kallar þa og setur til Hvijldar, ja, gefur þeim Hvijld, Es. 14. v. 1. So kallade hann og sette Mosen sinn Þenara til hanns Hvijldar, 5. Mos. B. 34. v. 5. 6. Ecke giorer DRottenn ad sonnu so edur eins ollum sijnum trwu og forsialu Pioonum, heldur vidlijka. Goodar og nakvæmar Foostur-Mædur, leggia opt þau wngu Bornen i Skaut og Kiolltu sier, til þess Bornen sofne þar, komest i Værd, og finne Roo; Gud, sem hin allra nakvæmasta eigenn Mooder, er ecke kann ad gleyma Avexte sijns Kvidar, Es. 49. v. 15. minnest vel sinna trwu og forsialu Pioona Erfides og Mædu, sem Dag og Noott hafa erfidad, 1. Thess. 2. v. 9. og pienad hanns Raade, til ad endurnæra þessar þreyttu Saaler, Jer. 31. v. 25. og leggur þa i þetta Daudanns Værdar Skaut, til Hvijldar, Roo-semes og Endurnæringar, segiande: Far þu, mitt Foolk, inn i þitt Svefn-Hws, og lyk aptur Dyrnar epter þier, geym þig um lijted Augabragd, Es. 26. v. 20. Þvi þeir sem rettferduglega hafa genged, koma til Fridar, og hvijlast i sijnum Svefn-Hwsum, Es. 56. v. 13. Hver til þessarar Hvijldar er komenn, hann hvijlest einnenn af sijnum Verkum, Ebr. 4. v. 10. sem Andenn seger wtþryckelega: Openb. B. 14. v. 13 Sæler eru þeir Framlidnu, sem i DRottne deya, i fra þessu; Ja, Andenn seger ad þeir hvijle af þeirra Erfide, enn þeirra Verk fylgia þeim epter.

Þegar hiner trwu og forsialu Guds Pioonar hafa teked Værdum, og hvijlst til þess Tijma Gud þeirra Herra hefur tilsett, Post. G. 17. v. 31. þad er, Upprisu Rettlatra, Luc. 14. v. 14. þa verda þeir af honum setter til Heidurs, Vegsemdar og Fridar, Rom. 2. v. 10. David, þa hann hafde a sijnum Tijma pienad Guds Raade, sofnade hann, og er settur til Fedra sinna. Þetta skede i Daudanum, þa var David, bæde i Tillite til Lijkamans og lijka

Sælarennar, setter til Fedra sinna. 3. Tillite til Lijkamanns, þegar hann var greftradur. Þad er Ovijst, hvar Davids Foreldrar hafa dæed, hvert heldur i sinne Utlegd hiaa Moabitum, edur þau hafe aptur komed til Bethlehem, þaa David þeirra Son var kominn til Rijkes, þad er lijka rijmelegt, þau hafe bæde, ad Sid Gydinga, jordud vered i Grofum sinna Forfedra i Bethlehem. Þad var Sidur hiaa Gydingum, ad grafa Menn aa þeirra Foostur Jord, hiaa þeirra Ætt⸗Monnum (Forfedrum) og i þeirra Erfdahluta; Þesse Sidvenia var gomul, og geckst leinge vid. Abraham feste so ad segia fyrst Kaup og Foot aa Canaans Lande, þegar hann keypte Akurenn af Ephron Hethiter, og þann twofalda Heller þar vid, sijnum Framlidna, nefnelega, sinne Hwsfrw Sara, sier og ollum sijnum til Erfda Greftrunar, 1. Mos. B. 23. v. 20. Þar var hann sialfur greftradur af sijnum Sonum, Isaac og Ismael, Cap. 25. v. 9. Þar greftrudu Jacob og Esau sinn Fodur Isaac, Cap. 35. v. 27⸗29. Þangad fluttu Jacobs Born hann af Egyptalande, Cap. 50. v. 12. 13. Josephs Bein, sem Israels Born hofdu fært af Egyptalande, groofu þeir i Sichem, aa þeim Akurs⸗Parte, sem Jacob keypte af Bornum Hemors Fodur Sichem, fyrer Hundrad Silfur⸗Peninga, og vard Erfdahlute Josephs Barna. Eleazar Son Aarons andadest og einnenn, og þeir jordudu hann i Gibea, sem heyrde til hanns Syne Phineas, og honum var gefenn aa Fialle Ephraim, Jos. B. 24. v. 32. 33. Þetta var Sidur aa Doomaranna Dogum, þvi um Gedeon stendur so: Gedeon Son Joas andadest i goodre Elle, og var jardadur i sijns Fodurs Grof Joas i Ophra, sem heyrde til Fodur þeirra Esrita, Doom. B. 8. v. 32. Samuel var jardadur i sijnu eigenn Hwse i Rama, 1. Sam. 25. v. 1. David var ad sonnu ei greftradur i Bethlehem, sinna Foreldra Stad og Ætt⸗Jordu, heldur i Jerusalem, þar hafde hann læted tilbwa sier og sijnum Eptirkomendum Konungleg Grafstæde, þvi þad heiter wtþryckelga: 1. Kong. 2. v. 10. So sofnade David med sijnum Fedrum, og var iardadur i Davids Borg. Bæde sofnade hann med sijnum Fedrum, lijka took Grofen vid hanns Lijkama, sem hanns Forfedra. Aller safnast ei til sinna Forfedra i Grofenne; Moses andadest i Moabita Lande, og var þar jardadur i einum Dal, 5. Mos. B. 34. v. 56. Um Aaron seger DRottenn: 4. Mos. B. 20. v. 26. Aaron skal safnast sier, enn ei til sinna Forfedra; Þvi hann doo aa Fiallenu Hor i Eydemorkenne. Hvar sem þetta skedur, ad Menn deya og verda greftrader, maa þad almennelega segia: Menn verde og sieu setter til Fedra sinna. Daudenn er ollum sameiginnlegur, hann hafa ei marger umflwed, edur hiaa honum komest; Enoch og Elias er oss openberad ei hafe dæed. Marger sem hafa dæed, eru ei greftrader, þo eru þeir i Daudanum setter til Fedra sinna, sem aller eru

dauds⸗

dauder, og i Daudann komner. Grofen er sameiginnlegt Hijbyle og Samastadur hinna Lifendu i Daudanum, Þvi Madurenn fer Þeangad, sem hann verdur æfinnlega, og Syrgendurner ganga i krijng a Strætunum. Þo aller verde ei grafner, Þa blijtur Þo Dupted ad koma til Jardarennar aptur, so sem Þad hefur vered, Pred. 12. v. 7. 9.

Þeir trwu og forsiælu Guds Þioonar, sem a sijnum Tijma hafa Þienad Guds Raade, læta hier i Grofenne sijna Lijkame syrerberast, epter Guds Vilia, allt eins og JEsus sialfur Guds Son Þeirra Herra: Hann var greftradur, Þeir lijka; Og so sem Þeir baaru hanns Lijking i Lijfenu, so villa Þeir i Daudanum og Grofenne honum lijker vera. Þeir voru tilskickader ad vera samlijker hanns Imind, uppa Þad, ad Þeir sem lijda med honum, verde einnenn med honum upphafder til Dijrdarennar, Rom. 8. v. 17. 29. Þad sa Þeir og ordlast, Þegar Þeir, i Tillite til Sealarennar, verda setter til sinna Fedra: Þeirra sem undann eru gengner og komner i Guds Rijke, adur safnader i Bindene Lifendra 1. Sam. 25. v. 29. a Himnum; Þar skulu Þeir setiast til Bords med Abraham, sem kalladur er Fader allra Þeirra sem trwa, Rom. 4. v. 11. og med Isaach og Jacob, Luc. 13. v. 29. Ecke einasta til Bords med Þeim, heldur i Abrahams Skaute, Luc. 16. v. 23. og Þad i Hwse Þeirra himneska Fodurs, Þeim Vistarverunum, hvar Þeirra HErra JEsus hefur tilbwed Þeim Stad, hvert hann vill taka, og tekur sijna trwu og forsiælu Pioona til sijn, Þa hann kemur, Joh. 14. v. 2. 3. og setia Þa yfir miked, Matth. 25. v. 21. allt sitt Gootz, Luc. 12. v. 44. Þeir eru Þar ei alleina setter til sinna Fedra, heldur allra Þeirra Fedra, sem eru i Samkundu Þeirra Frumgetnu, hverier upp eru skrifader a Himnum, Ebr. 12. v. 22. 23. Guds Heilogu og Utvoldu. Þar eru Þeir setter til sialfs Guds Þeirra Fodurs, sem er einn Gud og Fader allra, sa sem er yfir ollum, og fyrer ollum, og i ollum, Eph. 4. v. 6. Þessarar Sælu og Sooma nijtur Sealen, strax sem hun skilur vid Lijkamann, i hverium hun hafde sinn Bwstad og Vistarveru a sijnum Tijma, medann hun bioo i Holldenu. Lijkamenn verdur grafenn i Jordena, hver ad er allra vorra Mooder; Þvi allt hvad af Jordunne kemur, Þad blijtur aptur i Jordena ad snwast, Syr. 40. v. 1. 10. Hia Þessum Syndarennar Verdlaunum, sem er Rotnanen, kemst Lijkamenn ecke; Hin fyrsta Synd Þeirra fyrstu Manna, af hvorre allar Synder hafa sijn Uppruna, hia ollum Þeim sem af Adam eru komner, og epter Holdsins, Bloodsins og Mannsins Vilia getner og fædder, stack Þessum Syndarennar Brodde so rijkt og diwpt i allt Holld, ad hann er kroptugur i Forgengelegleikanum. Þessum Daudanns Doome, af Þeim Odaudlegg Lijfsins HErra,

Gude, i Oddæens Akre Eden wthroopudum: Þu ert Jord, og þu skalt ad Jordu aptur verda, 1. Mos. B. 3. v. 19. hlijtur ad fullnægiast; Hann fullkomnast og i Rotnanenne, og er enn i Dag af fullkomnum Mindugleika i Krapte, med Jaa og Amen stadfestur. Þetta mætte synast Straffe lijkast, fyrer ollum sem þad lijta, med Mannsins nátturlegum Augum, þad er og i Raun og Sannleika Straff i siaalfu sier; Enn i Tillite til þeirra Trwudu, reiknast og ælijtst þetta ecke so, heldur er þesse Læging Underbwningur til hiñar miklu og stooru Upphefdar, Æru, Vegs og Virdingar, sem æ epter fylger og vissulega opennberast i dijrdarlegu Frelse Guds Barna, Rom. 8. v. 21. og Lijfsins Upprisu, Joh. 5. v. 29. Þvi þo Holded edur Lijkamenn rotne, swne, uppleysest og adskiliest, i þad sijnasta Rik og Dupt, edur minnstu Agner sem ecke siaast, enn Menn kunna þo nefna, iminda og leida sier i Þaanka; Þaa telur Gud hvert og eitt Korn hier af, so eckert ferst edur tapast. Lijkamer þeirra Rettlaatu, Guds trwu og forsiaalu Þioona, hliota þetta epter Natturunnar Hætte ad lijda, enn DRottenn forvarar oll þeirra Bein, Ps. 34. v. 21. so eckert af þeim misferst, missest eda tijnest; Jorden, og i henne Grofen, uppsvelger i og med Rotnan Holdsins edur Lijkamanns, Daudanns Verkan, sem er Daudlegleikenn; Enn Daudenn siaalfur er uppsvelgdur i Sigur, 1. Cor. 15. v. 54. Jorden heldur þvi er hun ad fullu medtekur, sem er: Veikleikeñ, Breisklleikenn og Forgeingelegleikenn, þetta er henne ækvordud Hlutdeild, þvi Himeñ og Jord munu forgaanga, Luc. 21. v. 33. seger DRottenn. Hold og Blood gietur ecke eignast Guds Rijke, og hid forgeingelega skal ecke erfa hid Oforgeingelega, þar fyrer hlijtur þetta hid forgeingelega, ad klædast Oforgeingelegleikanum, og þetta hid daudlega hlijtur ad skrijdast Odaudlegleikanum, 1. Cor. 15. v. 50. 53. Þad skedur þegar Herrann kemur og seger: Komed aptur þier Mañanna Born, Ps. 90. v. 3. Vaked upp, þier sem ligged i Jordu, Es. 26. v. 19. Þvi siaaed, DRottenn, DRottenn kemur voldduglega, siaaed, hanns Laun eru hiaa honum, og hanns Betalingur fyrer honum, Cap. 40. v. 10. Þa rotnudu og rotnande Lijkame, er og verdur honum eingu Ohægra edur ordugra, ad framleida wr Moldu og Dupte Jardarennar, enn Lazari illaluktande Lijkama, er tekenn var ad rotna og swna fordum, Joh. 11. v. 39. edur giora Beinen æ Vellenum, sem voru ordenn miog skinen, lifande aptur, og laata æ þeim vaxa Ædar og Kiot, og draga Horund þar yfir. Vantrwen efast um þetta, og seger: Vor Bein eru skinen, og vor Von er fortopud, og þad er wtgiordt um oss; Enn so seger DRottenn, DRottenn: Siaa þu, eg vil opna ydar Grafer, og eg vil wtleida ydur, mitt Foolk, af þeim, og eg vil gefa minn Anda i ydur, so þier skulud verda lifande aptur, eg tala þad, eg giore þad einnenn, seger Drotteñ,

„Ezech.

Ezech. 37. v. 1. = 14. = Þetta giorer vissulega a sijnum Tijma, sa, sem var daudur, og sia, hann er lifande, og lifer fra Eilijfd til Eilijfdar Amen, og hefur Lykla Helvijtes og Daudanns, Opennb. 1. v. 18. Hann sem ei hefur Rotnan sied, Ps. 16. v. 10. ei einasta vid David, sem hefur sied Rotnan, helldur vid alla adra; Og vier væntum Frelsarans JEsu Christi, vors DRottenns af Himne, sem vorn fœfeinga Lijkama mun forklæra, so hann lijkur verde hanns forklærudum Lijkama, epter þeim Krapte, þar hann kann sier med alla Hlute undergefna ad giora, Phil. 3. 20. 21. Og þar ed i þessum forgengelega Lijkama bioo hañs Ande, sem JEsum uppvakte af Dauda, þa kann ei annars, enn sa same Ande, sem Christum uppvakte af Dauda, giore þa daudlegu Lijkame lifande, og uppreise þa wr Rotnanenne til Dyrdarennar, Rom. 8. v. 11. Þetta er Arfleifden Þioona DRottenns, Es. 54. v. 17. Þetta er vor allra Von, þetta er vor allra dijrmætasta Trw, sem trwum og vonum a þañ krossfesta og upp aptur risna JEsum Christum, hvor ad er til hægre Handar Gude Fodur, Rom. 8. v. 34. og bidur fyrer oss, ad þesse vor Von og Trw skule ecke linna, Luc. 22. v. 32. J heñe og uppa hana, vilium vier lifa, i heñe og uppa hana vilium vier deya, þad sie og vere i JEsu Nafne, Amen.

Þau somu Verken sem eg giore, bera mier Vitne, sagde JEsus vid Gydinga fordum, Joh. 5. v. 36. Þau **Verk** sem hier eru nu talen, bera Vitne uñ **Trygd og Forsialne Guds Þioona.** Þesse **Verk** giorde, og þeim tillögd **Laun** hreppte og hefur nu wr Vijtum bored Guds trwe og forsiale **Þioon**, vor sæle og blessade Yfirmadur, **Herra Jon Teits Son, Biskup** yfir þessu Hoola Stipte, Hvers andvana Lijkame hier var nu samstundis i Grofenne Molldu ausenn og Jordenne hulenn, fyrer vorum Augum. Gud gaf oss Þenna sinn trwa og forsiala Þioon, i Stad hinns, sem adur fyrer skemstu var framfarenn. Ein Ætt forgengur, sw onnur kemur, Pred. 1. v. 4. Gud gaf oss Þenna, sege eg, ecke i sinne Reide, Hos. 13. v. 11. helldur af sinne Owtsegiannlegre Nad og Myskun, af hverre hann sagde fordum: Eige vil eg ydur Fodurlausa epterlata, Joh. 15. v. 18. hvad hann mun ei helldur hier epter giora. Gud liet Hann syna Trygd og Forsialne i Ordum og Verkum, fyrer sier og ollu Foolke, Luc. 24. v. 19. þvi vier saum og vitum Þesse Guds Þioon var trwr. Trwr sijnum HErra Gude, hvers Umbod Hann hafde a Hende, i hveriu Hann geck fyrer honum i Sannleika, med fullkomnu Hiarta, og giorde hvad honum lijkade, Es. 38. v. 3. Trwr Guds Hiwum, yfir hver Hann var settur, þvi allt hvad Hann giorde vid þau og

ødra, giørdi Hann trwlega, 3. Joh. v. 5. Trwr sialfum sier, þvi Hann Ottadest DRottenn fraa sijnum Barndoome, 1. Kong. B. 18. v. 12. Trwr Madur verdur mikellega blessadur, seger Salomon, Ordskv. B. 28. v. 10. So trwr sem Hann var, so forsiaall var Hann. Forsiaall i Tillite til sialfs sijns og sinna, þvi Hann veitte sier og sijnum; Sijnu Hwse øllu gooda Forstoon, og Umsioon Guds Hwse, 1. Tim. 3. v. 4. 5. Forsiaall i Tillite til Guds Hiwa, sem Hann var yfir settur, þvi Hann var sem Þioonustumadur DRottenns, ecke þrætusamur, heldur vingiarnlegur vid alla Menn, kenningasamur, og gat umlided Vonda med Hoogvære, 2. Tim. 2. v. 14. Forsiaall i Tillite til þeirra sem fyrer utann Hanns Umbod voru, þvi Hann hafde af þeim Vitnan goodra Verka, til hverra Hann var kostgiæfenn, 1. Tim. 5. v. 10. Hann foor ei med Flaattskap, og falsade ecke Guds Ord, heldur med Sannleiksins Opennberingu, og audsynde sig vel vid allar Samvitskur Manna fyrer Gude, 2. Cor. 4. v. 2.

Þessar tvær Hofud-Dygder, Tryggdena og Forsiaalnena, hafde þesse Guds Þioon sier til beggia Hlida, til hægre og vinstre Handar, aa medann Hann aa sijnum Tijma þioonade Guds Raade, og geck wt og inn fyrer Drottne i hanns Hwse, eins og Salomon þaa tvo stooru Koparstoolpa, er hann uppreiste fyrer Forbyrge Musteresins, Jachin og Boas, 1. Kong. 7. v. 21. Med þeim framkvæmde Hann, sier af Gude tiltrwad Embætte, og øll þau miklu, dijrmætu, vandasomu og margfoldu Guds Verk, sem Honum voru aa Hendur falenn: Hann uppbyggde med Tryggd og Forsiaalne Guds Hws, so sem þeir Guds Þioonar sem hafa Þocknan aa þess Steinum, og aumka sig yfir þess Dupte, Ps. 102. v. 15. Hann erfidade med Trw og Forsiaalne i Guds Vijngarde og Akurvinnu, so sem trwr Þenare i DRottne, Eph. 6. v. 21. Hann giætte Guds Safnada med Tryggd og Forsiaalne, yfir hverja Hann var settur Hyrder, Eph. 4. v. 11. Biskup og Tilsioonar Madur, Post. G. 20. v. 28. Hann var trwr og forsiaall Vardhalds Madur, af Gude settur medal Foolksins, Ezech. 33. v. 7. sem gaf Giætur ad med miklu Athyggle, og stood aa Degenum uppaa Voku-Hædenne, og sette sig uppaa sitt Vardhald um allar Nætur, Es. 21. v. 7. 8. Hann var trwr og forsiaall Foosturmadur Guds Barna, þvi Hann elskade Guds Þiood, Luc. 7. v. 5. og bar Umhyggiu fyrer øllum sier tiltrwudum Søfnudum, 2. Cor. 11. v. 30. Nu hefur Hann feinged L a u n, fyrer sijna Tryggd og Dyggd. Nu hefur Hann feinged Hvijld, af sinne trwu og forsiaalu Þioonustu, þvi Lijkamenn liggur og sefur med øllu i Fride, Ps. 4. v. 9. Enn Saalen er innkomenn til

DRott-

DRottenns Hvijldar, Ebr. 4. So eru hier rætt Postulanns Ord og Hon- um: Þa hann hafde a sijnum Tijma Þioonad Guds Raade, sofnade hann, og er settur til Fedra sinna. Ad sönnu segest þad ei eigennlega, Hann sie hier ad Lijkamanum settur til Fedra sinna, þvi Hanns Foreldrar eda Fedur, eru hier ei marger jardader edur greftrader i þessum Stad; Þo mä so segia ad nockru leite, þvi Hann er settur hier til þeirra Fedra, sem hafa vered Hanns Formenn i Embættenu, og lijka nockrer Hanns Fedur epter Hold- enu, hverra Lijkamer hier hafa vered i og krijngum þenna heilaga Stad, i hver- ium vier erum nu stadder, greftrader og lagder til sinnar Hvijldar, hvadann þeir munu a sijnum Tijma framgaanga og upprijsa. Sierdeiles er Hann, i Til- lite til Saalarennar, settur til sinna Fedra a Himnum, þvi þar er Hann hiaa sijnum Fodur, Gude Odaudleguin, og stendur frame fyrer hanns Stoole, og þioonar honum Dag og Nott i hanns Mustere, Openb. 7. v. 15. Þar er Hann hiaa þeim eilijfa Fodur, Es. 9. v. 5. sijnum DRottne og Frelsara JEsu, sem lætur sijna Þioona vera þar sem Hann er, Joh. 14. v. 3. Þar er Hann hiaa Margfiolda margra Þusunda Engla, Ebr. 12. v. 22. hverium um Hann var boded i Lijfenu, Ps. 91. v. 11. sem þioonustusomum Ondum, Ebr. 1. v. 14. og nu hafa bored Hanns Saalu i Fadm Abrahams, Luc. 16. v. 22. Þar er Hann hiaa ollum þeim heilogu og utvoldu Fedrum, Guds Spaamonnum og Postulum; Þar er Hann hiaa sijnum Fedrum, hverier Trwarennar Endalok, sem er Saaluhiaalp Saalnanna, hafa vor Bijtum bored, 1. Pet. 1. v. 9. Þar er Hann hiaa ollum trwum og forstaalum Guds Þioonum, þeim Ondum hinna Rettlaatu, sem algiorder eru, Ebr. 12. v. 22. og inn eru gengner i Fogn- ud sijns HErra, Matth. 25. v. 23. og hafa fagnad Honum þaangad komande, og glediast med Honum þar verande, þvi Hann hefur nu yfirunned fyrer Lambs- ins Blood, Openb. B. 21. v. 11. og odlast Sigurenn, fyrer DRottenn vorn JEsum Christum, 1. Cor. 15. v. 57. hver ei lætur Hann nu framar utgaanga, heldur gefur Honum ad sitia med sier a sijnum Stoole, lijka sem hann hefur yfirunned, og seted med sijnum Fodur a hanns Stoole, Openb. 3. v. 12. - 21. Lofadur sie DRottenn, sem soddann Hiaalpræde hefur audsyndt Þessum sijnum Þioon, og so harla vel giordt vid Hanns Saalu, Ps. 18. v. 47. - 51. ad hann hefur audsyndt Honum so daadsamlega Goodgyrne i oruggum Stad, Ps. 31. v. 22.

Allsvaldande goode Gud! Þu sem tilbiooft og tilskickader Þenna gooda Þenara JEsu Christi, 1. Tim. 4. v. 6. Þu hefur þijna Þioon-

 usta

ustu einum og sierhverium af oss ad Hendur faled; Þu hefur giørdt oss styrkva, og ætlited trwlynda, til ad setia oss i Embætted, 1. Tim. 1. v. 12. DRottenn, snw ecke þinne Myskunseme fra oss; lat þijna Myskunsemd og Trwfeste jafnann vardveita oss, Psalm. 40. v. 12. Þijna Þienara, sem minne erum allre þeirre Myskun og Sannleika, sem þu hefur veitt oss, 1. Mos. B. 32. v. 10. Gef oss ad ødlast Myskun af þier, til ad vera trwer, 1. Cor. 7. v. 25. So vier meigum ganga so sem heyrer þeirre Kallan, þar vier erum inne kallader, Eph. 4. v. 1. Giør þa seinne Myskun stærre enn þa fyrstu, Ruth. 3. v. 10. og hialpa oss ad vardveita þad Gooda, sem oss er befalad og tiltrwad, fyrer heilagann Anda, sem i oss bygger, 2. Tim. 1. v. 13. 14. So vier gløtum ecke þvi, hvad vier høfum verkad, helldur so, ad vier medtøkum fullkomen Verdlaun, 2. Joh. Pist. v. 8.

O Fader Fødurlausra! Æ Doomare Ecknanna! Þu sem ert Gud i þijnu heilaga Heimile, Psalm. 68. v. 6. Lijt i þinne Myskun til Hennar, sem Daudenn hefur nu giørdt ad einne Eckiu, so Hun er orden Eckia, sem var ein Høfdingia Kvinna. Sia hversu Hun grætur a Noottunne, so ad Taaren renna ofann epter Hennar Kinnbeinum. Aller Hennar Naaungar eru Henne fiærlæger, Harmagr. 1. v. 1. 2. = 20. Helftena af Hennar Hiarta hefur Daudenn slited fra Hennar hægre Hende; Þad Saar og Skada kann eingenn lækna, utann þu, sem ert DRottenn Hennar Græðare, 2. Mos. B. 15. v. 26. Hun hefur fyrer Daudann mist Þann, sem var eitt med Henne; Þann Misser kann eingenn ad bæta, utann þu, DRottenn, sem hrærdest

Mysk-

Myskunar yfir Eckiunne, Luc. 7. v. 13. Vertu þar fyrer eitt med Henne, ad Hun mrige vera eitt med þier, setie sijna Von uppa Gud, og stadnæmest i Bænum og Akalle Dag og Noott, 1. Tim. 5. v. 5. Þad vere þijn Glede, þu sem heldur vid Magt Eckiunum, Psalm. 146. v. 9. ad giøra Henne til gooda af øllu Hiarta, og allre Saalu, og laat allt Gott koma yfir Hana, sem þu hefur talad, so Henne og Hennar Børnum meige vel vegna, Jer. 32. v. 4. = 39. = 43.

DRottenn! Þu sem vardveiter Fødurleysingiana, Psalm. 146. v. 9. Myskuna þig nu yfir Þaa, Es. 9. v. 16. Laat Þaa ecke Fødurlausa, Hverra Fødur þu hefur burtu teked fraa Þeim; Kom þu til Þeirra, Joh. 14. v. 18. og vert sialfur Þeirra Fader, þu sem ert rettur Fader yfir allt þad sem Børn kallast, a Himne og Jørdu, Eph. 3. v. 15. O Fader allra Myskunsemda! 2. Cor. 1. v. 3. Syn Myskun Þeim Unga, sem i Dag og endrarnær maa siaa og horfa a Taar Eckiunnar, sinnar harmande Moodur, og grætande Brædra og Systra, enn veit hverke nie kann, Æskunnar Veikleika vegna, þau ad meta, edur sialfur þeckia sijna Sorg; Æ! Laat Hann vera þinn Elskulegann, og hanns Naad, sem bioo i Runnenum, kome yfir Hanns Høfut. og yfir Hvirfil Þess Nasirs a medal Hanns Brædra, 5. Mos. B. 33. v. 12. = 24. So Hann sie þeckur bæde Gude og Mønnum, 1. Sam. B. 2. v. 26.

O Israels Hyrder! Þu sem giæter Josephs, so sem Sauda! Kom oss til Hiaalpar, þijnum Børnum, sem enn syrgium og nu søknum eins Yfermanns, i þessu, enn ad niju, Biskupslausa Hoola Stipte. Gud Zebaoth! Snw þier vid, lijt af Himnum, og siaa þar til! Vitia



þijns Vijnvidar, og halld hønum vid Magt, hvern þijn hægre Hønd hefur groodursett. Þijn Hønd veinde pad Foolked þinnar hægre Handar, og þann Mannsins Son, sem þu stadfester þier; So vilium vier þa ecke burtvijkia fra þier. Lat þu oss Lijfe halda, so vilium vier þitt Nafn akalla. DRottenn Zebaoth! Hugga oss: Lat þitt Andlit lysa, þa hialpumst vier, Psalm. 80. v. 1. 15. 20.

Sa Gud allrar Nadar, sem oss hefur kallad til sinnar eilijfrar Dijrdar i JEsu Christo, hann same mun Ydur, þier sem um litla Stund lijded, fullgiøra, tilreida, styrkia, efla og stadfesta. Þeim hinum sama sie Dijrd og Velde, fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen.



Endur-

# Endurvaken Angurseme,

Edur

# Sorg a Sorg ofann,

Uppæfallenn vid Uthafning þess i Lijfenu,

Hæ. Edla Hæ. Æruverduga,

Nu i DRottne sætlega sofnada, Herra,

# Herra, Jons Teits Sonar,

Fyrrum Biskups yfir Hoola Stipte.

Sameinud margføldum Søknude

## Dygda Hanns og Dugnadar;

Uppkvedenn af einføldum Þanka,

Med epterfylgiande

## Harma-Tølum.

Med Lag: Skiærre Sool er nu sett.

Æ! gudleg Undur! Hvad?
Er DRottens Vilie sæ,
Af Dauda Dygden ad,
Daudfølum verde Næ?
O! Þennann Alvijsis,

Undrunarlega Doom,
Raadstofun, Veg-
Verk furduleg!
Dygd fyrer Dauda Hioom!



2.

Þvi ſkylder Þanke frij,
( Þeſſa mig ecke dyl )
Fæviſku Fiotrum i,
Fængadur reyna til,
Ad ſtika Afgrunn ſlijkt,
Alvitſku Frelſaranns ?
Hvert ei mæ,
Nie meta fæ,
Utvalder Englar hanns.

3.

Ogrundud Epterſyn,
Um Tilgæng himneſkann,
Vill Edle veiku þijn,
Veg bwa hættaſtann ;
Þvi nær ed þenker til,
Þar ſtilla Vitſku Foot,
Enn þitt Fier,
Ad Falle ber,
Ei veitſtu ædur hoot.

4.

Einaſta Þecking þæ,
Þier Hugar-feſta ſkalt :
Stioorn lætur Himens hæ,
Hid betſta falled allt,
Þeim er Guds Otta i,
Æfinnar felldu Hlaup,
Þeſſum hanns,
Til Hagbatanns,
Vagnleidar Vokve draup.

5.

Ofvaxenn Harma Hag,
Hiartanu ecke læt,
Megnare Mædu-Dag,
Meta, þeſs haſdu Gæt ;
Enn þetta Efne tak,
Adgiætens Þanka verdt,
Gudlegt Ræd,
Sem nu i Næd,
Oſs giorer opennbert.

6.

Utrettum Arme ſæ,
Alvijſe DRottenn med,
Þolrauna Þiokum æ,
Þeſſa Byggd leggia ried,
Þvi vorum Heidre hann,
Heſur i burtu ſviſt,
Angur bætt,
Er oſs fieck grætt,
Med nijrre Mædu giſt.

7.

Hanns ædur vijſa Vild,
Vor Enne teikna ried,
Hryggda-Banns Heide fylld,
Harma Skij-Drogum med,
Þerrade ſijdann ſvo,
Sorgum doggvada Bræ,
Nordurlands,
Ad Glede Glans,
Sool-Kiæte ſyndeſt ſpæ.

8.

Ad Skickun Skaparanns,
Skickun, O! Hardann Doom!
Er

Er vor umſnwenn Dans,
J Sorga Kvæde toom.
Jardteikna Merke morg,
Musteres hafinn dock,
Kyrkiu Sool,
Ad Faldenn ſjol,
Af Daudanns Ellde klock.

9.

Af Daudanns Ellde, Hvad?
Af DRottenns Raade þo,
Alviisu ækvardad,
Eilijfre ſkylde Roo,
Hai-Edla Herra þeſs,
Herra Jons Teits Sonar,
Lijfgud Ond,
Vid Lijkhams Bond,
Fyrre ſem fiotrud var.

10.

Hann Biſkup hævitur,
Hoola ſem Stiptes var,
Af DRottne innſettur,
Ædstum Biſkupe, hvar,
Rwmlega Ared eitt,
Epter hanns Raade frij,
Þiente ſijd-ann
Leid fræ Lijd,
Helgaſta Himens i.

11.

Hælærdann Herra meſt,
Hvervetna ſeingu ſkreitt,
Lærdooms Kynſerde fleſt,
Fundenn ſøſnud i eitt,
Hoogvære, goodſamt Ged,
Gudrækne, Trwſkapur,
Stille, Mæt,
J Giordum Gæt,
Fridſeme, Froomleikur.

12.

Æ! Gudleg Undur! Hvad,
Oſs veitteſt ſkama Stund,
Hiartans med Huggun ad,
Hvijlaſt vid þenna Lund,
Fullvaxenn Dygda Dug?
Þvi Dauda Sigden breid,
Meidde Krans,
Og Knappa Fans,
Riett hann vid Rætur ſneid.

13.

Hnijgenn i Daudanns Dæ,
Dygdunum fiol-prijddur,
Hælærde Herra ſæ,
Himneſkre gæſadur,
Dygdanna Umbun er,
Eilijfum Sigur Krans;
Hvers ed Dygd,
En breida Byggd,
Nu þreyer Nordurlands.

14.

Hanns Æruminning mun,
Margalenn Sorga Fiold,
Sitt þar til ſeger Hrun,
Sijdarſta komed Olld,
Bleſſunar þroſkud Þroott;
Þijn,

Pijn, Herra! Verken leisd,
Hiedann her,
A burt med Pier,
Lifanda Loft reisd.

15.

Ydar Hat = Edla FRU!
Undu hiartlægre mest,
Blood = Unda Bad JEsu,
Blæde, sem fyrre lietst,
Hægd alla, Huggun, Frid,
Harmvættar herre Bræar,
Hiarta sitt,
Vid solled hitt,
Legge hann Særed Sæar.

16.

Hann sem ad Andann af,
Elsku vijst mannlegre,
Krossenns i Kvol uppgaf,
Kross Ydar lagfære.
Elsku Andkosin heit,
Angre vid blanden þo,
Alvijst Ræd,
Þau oll i Næd,
Sikre med Frid og Froo.

17.

Samt Edla Affspreinge,
Ættar = Skard hoggved stærst,
Af Daudanns Adhlaupe,
Odswsu genged nærst,
Fylle i Fodur Stad,
Fodurdygd Skaparanns;
Mættvana Vrioost,
Er Mædn sloost,
Umsadme Fadmur hanns.

18.

Þitt sofe, Herra, Hold,
Holde Rettlætra nær,
Uns þijna, mestur, Mold,
Mold skilur Vijgdre fiær,
Ords Kraptur Almættugs,
Alheims kvediande Þijngs,
Med Lwdur = Bil,
Ton = hvellum til,
Deyendur, Dooma Hrijngs!



  

